Völsungi.“ Ok nú kemr sveinninn til Sigmundar; þá bað Sigmundr hann knoða ór mjöli þeira, en hann vill sœkja þeim eldivið, fær í hönd honum einn belg; síðan ferr hann at viðinum; ok er hann kom aptr, þá hafði Sinfjötli lokit at baka. Þá spurði Sigmundr, ef hann hafi nökkut fundit í mjölinu. „Eigi er mér grunlaust“, sagði hann, „at eigi hafi í verit nökkut kykt í mjölinu fyrst er ek tók at knoða, ok hér hefi ek með knoðat þat, er í var.“ Þá mælti Sigmundr, ok hló við: „Eigi get ek þik hafa mat af þessu brauði í kveld, þvíat þar hefir þú knoðat með hinn mesta eitrorm.“ Sigmundr var svá mikill fyrir sér, at hann mátti eta eitr, svá at hann skaðaði ekki, en Sinfjötla hlýddi þat, at eitr kœmi utan á hann, en eigi hlýddi honum at eta þat né drekka.

VIII. Þat er nú at segja, at Sigmundi þikkir Sinfjötli of ungr til hefnda með sér, ok vill nú fyrst venja hann með nökkut harðræði; fara nú um sumrum víða um skóga ok drepa menn til fjár sér. Sigmundi þikkir hann mjök í ætt Völsunga, ok þó hyggr hann, at hann sé son Siggeirs konungs, ok hyggr hann hafa ilsku feðr síns, en kapp Völsunga, ok ætlar hann eigi mjök frændrœkinn mann, þvíat hann minnir opt Sigmund á sína harma ok eggjar mjök at drepa Siggeir konung. Nú er þat eitthvert sinn, at þeir fara enn á skóginn at afla sér fjár, en þeir finna eitt hús ok tvá menn sofandi í húsinu með digrum gullhringum; þeir hafa orðit fyrir úsköpum, þvíat úlfahamir héngu yfir þeim; hit tíunda hvert dœgr máttu þeir komast ór hömunum; þeir váru konungasynir. Þeir

---

4. synfiotli *Cd.* — 5. at baka. *Skulde vel hede* at knoða. — 8. *Foran* knoðat *var først skrevet* nokut *i Cd., men dette er overstreget som urigtigt.* — 14. *Cap. 8. Rød Cap.overskr. i Cd.*: þeir sigmundr forv i hamina. — 21. *Jeg kunde ikke skjelne, om Cd. havde* því (*saaledes Fas.*) *eller* þt (*d. e.* þvíat). — 23. *Saavidt jeg kunde skjelne, har Cd.* eñ *og ikke* ut (*som Bj. og Fas. læser*). — 26. *Foran* yfir þeim *har Cd.* yfir húsinu; *dette kunde mulig beholdes med Forandring af* yfir *til* í.

Sigmundr fóru í hamina ok máttu eigi ór komast, ok fylgði sú náttúra, sem áðr var, létu ok vargsröddu; þeir skildu báðir röddina. Nú leggjast þeir ok á merkr, ok ferr sína leið hvárr þeira; þeir gera þann mála með sér, at þeir skuli til hætta, þótt sjau menn sé, en eigi framar, en sá láti úlfs rödd, er fyrir úfriði yrði. „Bregðum nú eigi af þessu“, segir Sigmundr, „þvíat þú ert ungr ok áræðisfullr, munu menn gott hyggja til at veiða þik.“ Nú ferr sína leið hvárr þeira; ok er þeir váru skildir, finnr Sigmundr . . menn ok lét úlfs röddu; ok er Sinfjötli heyrir þat, ferr hann til þegar ok drepr alla; þeir skiljast enn. Ok er Sinfjötli hefir eigi lengi farit um skóginn, finnr hann ellif·i menn ok berst við þá, ok ferr svá, at hann drepr þá alla; hann verðr ok lúinn . . . ok ferr undir eina eik, hvílist þar. . . . . . . . dir . . . gi ok fara . . . . . . . . . . . . hann mælti til . . . . . . . . . . átt lið til at drepa sjau menn, en ek em barn at aldri hjá þér ok kvadda ek eigi liðs at drepa ellifu menn“; Sigmundr hleypr at honum svá hart,

---

4. hvárr] hverr *Cd.* — 10. *Foran* menn *staa i Cd. nogle Bogstaver, som jeg ikke kunde skjelne* (viij ? ?). — 12—13. xi men*n* ok berzt v*ið* þa ok ferr, *saa trode jeg at læse i Cd.*; *men Ordene ere utydelige og usikre.* — 14. lúinn, *saa Papirafskrr. og Bj., Fas.*; *Cd. er her utydelig, dog trode jeg i den at skimte samme Ord (første Bogstav er sikkert* l; *efter Fas. synes der i Cd. at staa* la . . .); *men, hvis dette er rigtigt, har der endnu staat et Ord paa omtrent 3 Bogstaver mellem* luinn *og* ok ferr (mjök *vilde give et passende Udtryk*). — 14. *Stykket mellem* hvílist þar *og* at drepa ellifu menn *have Papirafskrr. udfyldt paa fri Haand; efter dem indsætter Fas.*: Þá kemr Sigmundr þar ok mælti: því kallaðir þú ekki? Sinfiötli sagði: eigi vilda ek kveðja þik til liðs. — *Hvor jeg ovenfor har sat Prikker, ere Ordene næsten udslettede og for mig ulæselige i Cd.*; *de ovenfor indsatte Ord ere sikre, uden hvor det modsatte her udtales.* — 15. ir (*i Cd. betegnet ved Krøl*) *i* dir *er ikke sikkert*; *foran* dir *trode jeg at skimte* n. — *Mellem* dir *og* ge (*saa Cd.*) ok fara *er Rum til 3 eller 4 Bogstaver i Cd.* — 16. *Foran* att (*saa Cd.*) *trode jeg at skimte* h. — 18. Sigmundr] Sidmundr *Cd.*

at hann stakar við ok fellr; Sigmundr bítr í barkann framan. Þann dag máttu þeir eigi komast ór úlfahömunum. Sigmundr leggr hann nú á bak sér ok berr heim í skálann, ok sat hann yfir honum, en bað tröll taka úlfhamina. Sigmundr sér einn dag, hvar hreysikettir tveir váru, ok bítr annarr í barkann öðrum, ok rann sá til skógar ok hefir eitt blað ok fœrir yfir sárit, ok sprettr upp hreysiköttrinn heill. Sigmundr gengr út ok sér, hvar hrafn flýgr með blaðit ok fœrði honum; hann dregr þetta yfir sárit Sinfjötla, en hann sprettr upp þegar heill, sem hann hefði aldri sárr verit. Eptir þat fara þeir til jarðhúss ok eru þar til þess, er þeir skyldu fara ór úlfhömunum; þá taka þeir þá ok brenna í eldi ok báðu engum at meini verða; ok í þeim úsköpum unnu þeir mörg frægðarverk í ríki Siggeirs konungs. Ok er Sinfjötli er frumvaxti, þá þikkist Sigmundr hafa reynt hann mjök. Nú líðr eigi langt, áðr Sigmundr vill leita til föðurhefnda, ef svá vildi takast; ok nú fara þeir í brott frá jarðhúsinu einhvern dag ok koma at bœ Siggeirs konungs síð um aptan ok ganga inn í forstofuna þá, er var fyrir höllinni, en þar váru inni ölker, ok leynast þar. Dróttning veit nú, hvar þeir eru, ok vill hitta þá; ok er þau finnast, gera þau þat ráð, at þeir leitaði til föðurhefnda, er náttaði. Þau Signý ok konungr eigu tvau börn ung at aldri, þau leika sér á gólfinu at gulli ok renna því eptir gólfinu hallarinnar ok hlaupa þar eptir; ok einn gullhringr hrýtr utar í húsit, þar sem þeir Sigmundr eru, en sveinninn hleypr eptir at leita hringsins. Nú sér hann, hvar sitja tveir menn miklir ok grimmligir, ok hafa síða hjálma ok hvítar brynjur. Nú hleypr hann í höllina innar fyrir feðr sinn ok segir honum, hvat hann hefir sét. Nú grunar konungr, at vera mun svik við hann. Signý heyrir

---

5. hreyse kettir *Cd.*, *ikke* hreisikettir. — 7. hreysiköttrinn] hreysi kattrinn *Cd.*, *ikke* hreisiköttrinn. — 28. grimlegir *Cd.* — 31. $\overset{v}{\text{m}}$. *Cd.*, *ikke* muni.

7

nú, hvat þeir segja; hon stendr upp, tekr börnin bæði ok ferr utar í forstofuna til þeira ok mælti, at þeir skyldu þat vita, at þau hefði sagt til þeira: „ok ræð ek ykkr, at þit drepið þau.“ Sigmundr segir: „Eigi vil ek drepa börn þín, þótt þau hafi sagt til mín“; en Sinfjötli lét sér ekki feilast ok bregðr sverði ok drepr hvárttveggja barnit ok kastar þeim innar í höllina fyrir Siggeir konung. Konungr stendr nú upp ok heitr á menn at taka þá menn, er leynzt höfðu í forstofunni um kveldit. Nú hlaupa menn utar þangat ok vilja höndla þá, en þeir verja sik vel ok drengiliga, ok þikkist þá sá verst hafa lengi, er næst er; ok um síðir verða þeir ofrliði bornir ok verða handteknir ok því næst í bönd reknir ok í fjötra settir, ok sitja þeir þar þá nótt alla. Nú hyggr konungr at fyrir sér, hvern dauða hann skal fá þeim, þann er kendi lengst; ok er morginn kom, þá lætr konungr haug mikinn gera af grjóti ok torfi; ok er þessi haugr er gerr, þá lét hann setja hellu mikla í miðjan hauginn, svá at annarr jaðarr hellunnar horfði upp, en annarr niðr; hon var svá mikil, at hon tók tveggja vegna, svá at eigi mátti komast hjá henni. Nú lætr hann taka þá Sigmund ok Sinfjötla ok setja í hauginn sínum megin hvárn þeira fyrir því, at honum þótti þeim þat verra at vera eigi báðum saman, en þó mátti heyra hvárr til annars. Ok er þeir váru at tyrfa hauginn, þá kemr Signý þar at ok hefir hálm í fangi sér ok kastar í hauginn til Sinfjötla ok biðr þrælana leyna konunginn þessu; þeir já því, ok er þá lokit aptr hauginum. Ok er nátta tekr, þá mælti Sinfjötli til Sigmundar: „Ekki ætla ek okkr mat skorta um hríð, hér hefir dróttningin kastat fleski inn í hauginn ok vafit um utan hálmi“; ok enn þreifar hann um fleskit ok finnr, at þar var stungit í sverði Sigmundar, ok

2. *ferr Cd., ikke* fór. — 17. haugr er gerr] hauG er giorr *Cd., hvor det første Ord er understrøget med rød Streg.* — 21. sín (m over n) *Cd., ikke* sínu. — 22. hvárn] hvern *Cd.* — 28. mát *Cd.*

kendi at hjöltunum, er myrkt var í hauginum, ok segir Sigmundi; þeir fagna því báðir. Nú skýtr Sinfjötli blóðreflinum fyrir ofan helluna ok dregr fast; sverðit bítr helluna. Sigmundr tekr nú blóðrefilinn, ok ristu nú í milli sín helluna ok létta eigi fyrr, en lokit er at rista, sem kveðit er:

1. Ristu af magni
mikla hellu
Sigmundr hjörvi
ok Sinfjötli.

Ok nú eru þeir lausir báðir saman í hauginum ok rista bæði grjót ok járn ok komast svá út ór hauginum. Þeir ganga nú heim til hallarinnar, eru menn þá í svefni allir; þeir bera við at höllunni ok leggja eld í viðinn; en þeir vakna við gufuna, er inni eru, ok þat, at höllin logar yfir þeim. Konungr spyrr, hverir eldana gerði. „Hér eru vit Sinfjötli, systurson minn“, sagði Sigmundr, „ok ætlum vit nú, at þat skulir þú vita, at eigi eru allir Völsungar dauðir“; hann biðr systur sína út at ganga ok þiggja af honum góð metorð ok mikinn sóma, ok vill svá bœta henni sína harma. Hon svarar: „Nú skaltu vita, hvárt ek hefi munat Siggeiri konungi dráp Völsungs konungs; ek lét drepa börn okkur, er mér þóttu of sein til föðurhefnda, ok ek fór í skóg til þín í völvulíki, ok er Sinfjötli okkarr son; hefir hann af því mikit kapp, at hann er bæði sonarson ok dótturson Völsungs konungs; hefi ek þar til unnit alla hluti, at Siggeirr konungr skyldi bana fá, hefi ek ok svá mikit til unnit at framm kœmist hefndin, at mér er með øngum kosti líft; skal ek nú deyja með Siggeiri konungi lostig, er ek átta hann nauðig.“ Síðan kysti hon Sigmund bróður sinn ok Sinfjötla ok gékk inn í eldinn ok bað þá vel fara;

5. letta *Cd.*, *ikke* léttu. — 11. iarn̄ *Cd.* *Skulde vel hede* torf; *jvfr. Völs. rím. V. 253, L. 4 og V. 255, L, 1.* — 13. havllvnne *Cd.*, *ikke* höllinni. — 23. volfu *Cd.*

síðan fékk hon þar bana með Siggeiri konungi ok allri hirð sinni. Þeir frændr fá sér lið ok skipa, ok heldr Sigmundr til ættleifðar sinnar ok rekr ór landi þann konung, er þar hafði í sezt eptir Völsung konung. Sigmundr gerist nú ríkr konungr ok ágætr, vitr ok stórráðr; hann átti þá konu, er Borghildr hét; þau áttu tvá sonu, hét Helgi annarr, en annarr Hámundr; ok er Helgi var fœddr, kómu til nornir ok veittu honum formála ok mæltu, at hann skyldi verða allra konunga frægastr. Sigmundr var þá kominn frá orrostu ok gékk með einum lauk í mót syni sínum, ok hér með gefr hann honum Helga nafn ok þetta at nafnfesti: Hringstaði ok Sólfjöll ok sverð, ok bað hann vel fremjast ok verða í ætt Völsungs; hann gerist stórlyndr ok vinsæll ok fyrir flestum mönnum öðrum at allri atgervi. Þat er sagt, at hann ræzt í hernað, þá er hann var fimtán vetra gamall; var Helgi konungr yfir liðinu, en Sinfjötli var fenginn til með honum, ok réðu báðir liði.

IX. Þat er sagt, at Helgi finnr þann konung í hernaði, er Hundingr hét; hann var ríkr konungr ok fjölmennr ok réð fyrir löndum; þar tekst orrosta með þeim, ok gengr Helgi fast framm, ok lýkst með því sjá bardagi, at Helgi fær sigr, en Hundingr konungr fellr ok mikill hluti liðs hans. Nú þikkir Helgi hafa vaxit mikit, er hann hefir felt svá ríkan konung. Synir Hundings bjóða nú út her í mót Helga ok vilja hefna föður síns; þeir eiga harða orrostu, ok gengr Helgi í gegnum fylkingar þeira brœðra ok sœkir at merkjum sona Hundings konungs ok feldi þessa Hundings

---

*L. 6—7. Jfr. Frá dauða Sinfj.* (*S. 202 a*, *L. 3—4*). — *L. 7—27. Jfr. Helgakviða Hundingsbana fyrri Str. 1—14.*

---

2. lið ok skipa *burde vel hede* liðs ok skipa *eller* lið ok skip. — 15. rȩzt *Cd.*; rèzt *Fas.* — 18. *Cap. 9. Rød Cap.overskrift i Cd.*: helgi feck sigr. (*d. e* sigrunar).

sonu: Alf ok Eyjólf, Hervarð ok Hagbarð, ok fékk hér ágætan sigr. Ok er Helgi ferr frá orrostu, þá fann hann við skóg einn konur margar ok virðuligar sýnum, ok bar þó ein af öllum, þær riðu með ágætligum búningi. Helgi spyrr þá at nafni, er fyrir þeim var; en hon nefndist Sigrún ok kvezt vera dóttir Högna konungs. Helgi mælti: „Farið heim með oss ok verið velkomnar!“ Þá segir konungsdóttir: „Annat starf liggr fyrir oss, en drekka með þér.“ Helgi svarar: „Hvat er þat, konungsdóttir?“ Hon svarar: „Högni konungr hefir heitit mik Hoddbroddi, syni Granmars konungs, en ek hefi því heitit, at ek vil eigi eiga hann, heldr en einn krákuunga; en þó mun þetta framm fara, nema þú bannir honum ok komir í mót honum með her ok nemir mik á brott, þvíat með engum konungi vilda ek heldr setr búa, en með þér!“ „Ver kát, konungsdóttir!“ sagði hann, „fyrri skulum vit reyna hreysti okkra, en þú sér honum gipt, ok reyna skulum vit áðr, hvárr af öðrum berr, ok hér skal lífit á leggja.“ Eptir þetta sendir Helgi menn með fégjöfum at stefna at sér mönnum, ok stefnir öllu liðinu til Rauðabjarga; beið Helgi þar til þess, er mikill flokkr kom til hans ór Heðinsey, ok þá kom til hans mikit lið ór Nörvasundum með fögrum skipum ok stórum. Helgi konungr kallar til sín skipstjórnarmann sinn, er Leifr hét, ok spurði, ef hann hefði talit lið þeira; en hann svarar: „Eigi er hœgt at telja, herra! skip þau, er komin eru ór Nörvasundum, eru á tólf þúsundir manna,

*L. 1—26. Jfr. Helg. Hund. I, Str. 14—25, L. 1.*

1. Eyjólf, *saa rettet efter Helg. Hund. I, Str. 14, L. 3*] eyolf *Cd.* — Hervarð ok Hagbarð; *i Helg. Hund. Str. 14, L. 5* Hjörvarð ok Hávarð; *jfr. det pros. Stykke efter Helg. Hund. II, Str. 13 (S. 193 b) og Nornag. S. 58, L. 11 f.* — 2. f$^{o}$r *Cd., d. e.* ferr, *ikke* fór. — 10. Hoddbroddi, *saa stadig i Cd.*; *i Helg. Hund. I rettere* Höðbroddr. — 14. vildi *Cd.* — 15. sętr *Cd.* — 17. sér] sert *Cd.* — 20. Rauðabjarga; *burde hede* Brandeyjar, *se Helg. Hund. I, Str. 22, L. 3.*

ok er þó hálfu fleira annat.“ Þá mælti Helgi konungr, at þeir skyldu snúa á þann fjörð, er heitir Varinsfjörðr, ok svá gerðu þeir. Nú gerði at þeim storm mikinn ok svá stóran sjó, at því var líkast at heyra, er bylgjur gnúðu á borðunum, sem þá er björgum lysti saman. Helgi bað þá ekki óttast ok eigi svipta seglunum, heldr setja hvert hæra en áðr; þá var við sjálft, at yfir mundi ganga, áðr þeir kœmi at landi. Þá kom þar Sigrún, dóttir Högna konungs, af landi ofan með miklu liði ok snýr þeim í góða höfn, er heitir at Gnípalundi. Þessi tíðendi sá landsmenn, ok kom af landi ofan bróðir Hoddbrodds konungs, er þar réð fyrir, er heitir at Svarinshaugi; hann kallar á þá ok spyrr, hverr stýrði hinu mikla liði. Sinfjötli stendr upp ok hefir hjálm á höfði skygðan sem gler ok brynju hvíta sem snjó, spjót í hendi með ágætligu merki ok gullrendan skjöld fyrir sér; sá kunni at mæla við konunga: „Seg svá, at þú hefir gefit svínum ok hundum ok þú finnr konu þína, at hér eru komnir Völsungar, ok man hér hittast í liðinu Helgi konungr, ef Hoddbroddr vill finna hann, ok er þat hans gaman at berjast með frama, meðan þú kyssir ambáttir við eld.“ Granmarr svarar: „Eigi mantu kunna mart virðuligt mæla ok forn minni at segja, er þú lýgr á höfðingja; mun hitt sannara, at þú munt lengi hafa fœzt á mörkum úti við vargamat ok drepit brœðr þína, ok er kynligt, er þú þorir at koma í her með góðum mönnum, er mart kalt hræ hefir sogit til blóðs.“ Sinfjötli svarar: „Eigi muntu gløgt muna nú, er þú vart völvan í Varinsey

*L. 1—26. Jfr. Helg. Hund. I, Str. 25, L. 3—37, L. 2 incl.*

4. at *foran* því *mgl. i Cd.* — 11. kom af landi ofan bróðir, *saa Cd., ikke* komu af landi ofan. Bróðir. — 12. réð] reid *Cd.* — 21. Granmar *Cd. her og siden. Dette Navn paa Hodbrodds Broder er, rimelig ved en Afskriverfeil, kommet ind for* Guðmundr, *som Helg. Hund. I har. I L. 11 skulde det vel hede* . . ofan Guðmundr bróðir . . — 27. gløgt] glokt *Cd.* — vart] var *Cd.*

ok kvazt vilja mann eiga ok kaust mik til þess embættis at vera þinn maðr; en síðan vartu valkyrja í Ásgarði, ok var við sjálft, at allir mundi berjast fyrir þínar sakar, ok ek gat við þér níu varga á Láganesi, ok var ek faðir allra.“ Granmarr svarar: „Mart kantu ljúga; ek hygg, at engis faðir mættir þú vera, síðan þú vart geldr af dœtrum jötunsins á Þrasnesi, ok ertu stjúpson Siggeirs konungs ok látt á mörkum úti með vörgum, ok kómu þér öll úhöpp senn at hendi, þú drapt brœðr þína ok gerðir þik at illu kunnan.“ Sinfjötli svarar: „Hvárt mantu þat, er þú vart merin með hestinum Grana, ok reið ek þér á skeið á Brávelli; síðan vartu geitasveinn Gölnis jötuns.“ Granmarr segir: „Fyrri vilda ek seðja fugla á hræi þínu, en deila við þik lengr.“ Þá mælti Helgi konungr: „Betra væri ykkr ok meira snjallræði at berjast, en mæla slíkt, er skömm er at heyra, ok ekki eru Granmars synir vinir mínir, en þó eru þeir harðir menn.“ Granmarr ríðr nú í brott ok til fundar við Hoddbrodd konung, þar sem heita Sólfjöll; hestar þeira heita Sveipuðr ok Sveggjuðr; þeir mœttust í borgarhliði ok segja honum hersögu. Hoddbroddr konungr var í brynju ok hafði hjálm á höfði; hann spyrr, hverir þar væri: „eða hví eru þér svá reiðuligir?“ Granmarr segir: „Hér eru komnir Völsungar ok hafa tólf þúsundir manna við land ok sjau þúsundir við ey þá, er Sok heitir, en þar sem heitir fyrir Grindum er þó mestr fjöldi, ok hygg ek nú, at Helgi

---

*L. 1—27. Jfr. Helg. Hund. I, Str. 37, L. 5—50, L. 11.*

---

1. kvazt] kvezt *Cd.* — 3. m̌di *Cd.*, *ikke* mundu. — 4. Láganesi; *i Cd. reg. af Helg. Hund. I* nesi sagv. — 6—7. jötunsins] iotvnssinns *Cd.* — 7. þsnesi *Cd. Rettere i Helg. Hund. I, Str. 40, L. 8* Þórsnesi. — 9. *Kanske rettere* er þú drapt. — 10. mantu] mattu *Cd.* — 12. Gaulnis *Cd.*; Gullnis *Helg. Hund. I, 43.* — 15. snjallræði] snęllr. *Cd.* — 19. Sveipuðr *kaldes i Helg. Hund. I, 47 rettere* Svipuðr. — Sveggjuðr *i Cd. og Helg. Hund. I, 47 skrevet med én* g.

muni nú berjast vilja.“ Konungr segir: „Gerum þá boð um allt várt ríki ok sœkjum í mót þeim; siti sá engi heima, er berjast vill; sendum orð Hrings sonum ok Högna konungi ok Álfi hinum gamla, þeir eru bardagamenn miklir.“ Fundust þeir þar, er heitir Frekasteinn, ok tókst þar hörð orrosta. Helgi gengr framm í gegnum fylkingar; þar varð mikit mannfall. Þá sá þeir skjaldmeyja flokk mikinn, svá sem í loga sæi, þar var Sigrún konungsdóttir. Helgi konungr sótti í mót Hoddbroddi konungi ok fellir hann undir merkjum. Þá mælti Sigrún: „Haf þökk fyrir þetta þrekvirki! skipt man nú löndum, er mér þetta mikill tímadagr, ok muntu fá af þessu veg ok ágæti, er þú hefir svá ríkan konung feldan.“ Þat ríki tók Helgi konungr ok dvaldist þar lengi ok fékk Sigrúnar ok gerðist frægr konungr ok ágætr, ok er hann hér ekki síðan við þessa sögu.

X. Völsungar fara nú heim ok hafa enn mikit aukit sitt ágæti. Sinfjötli leggst nú í hernað af nýju; hann sér eina fagra konu ok girnist mjök at fá hennar; þeirar konu bað ok bróðir Borghildar, er átti Sigmundr konungr. Þeir þreyta þetta mál með orrostu, ok fellir Sinfjötli þenna konung; hann herjar nú víða ok á margar orrostur ok hefir ávalt sigr, gerist hann manna frægstr ok ágætastr ok kemr heim um haustit með mörgum skipum ok miklu fé. Hann segir feðr sínum tíðendin, en hann segir dróttningu; hon biðr Sinfjötla fara brott ór ríkinu ok læzt eigi vilja sjá hann. Sigmundr kvezt eigi láta hann í brott fara ok býðr at bœta henni með gulli ok miklu fé, þótt hann hefði engum fyrri bœtt mann, kvað engi frama at sakast við konur. Hon má nú þessu eigi á leið koma; hon mælti: „Þér skuluð

*L. 1–13. Jfr. Helg. Hund. I, Str. 50, L. 12—Str. 56 incl. — Cap. 10. Jfr. Frá dauða Sinfjötla.*

9. soti *Cd.*, *ikke* sókti. — 16. *Cap. 10. Rød Cap.overskr. i Cd.* fra volsungum. — 29. má nú] manu *Cd.*, *ikke* mátti.

ráða, herra! þat samir.“ Hon gerir nú erfi bróður síns með ráði konungs, býr nú þessa veizlu með hinum beztum föngum ok bauð þangat mörgu stórmenni. Borghildr bar mönnum drykk; hon kemr fyrir Sinfjötla með miklu horni; hon mælti: „Drekk nú, stjúpson!“ Hann tók við ok sá í hornit ok mælti: „Gjöróttr er drykkrinn.“ Sigmundr mælti: „Fá mér þá!“ hann drakk af; dróttningin mælti: „Hví skulu aðrir menn drekka fyrir þik öl?“ Hon kom í annat sinn með hornit: „Drekk nú!“ ok frýði honum með mörgum orðum; hann tekr við horninu ok mælti: „Flærðr er drykkrinn.“ Sigmundr mælti: „Fá mér þá!“ Hit þriðja sinn kom hon ok bað hann drekka af, ef hann hefði hug Völsunga. Sinfjötli tók við horninu ok mælti: „Eitr er í drykknum!“ Sigmundr svarar: „Lát grön sía, sonr!“ sagði hann; þá var konungr drukkinn mjök, ok því sagði hann svá. Sinfjötli drekkr ok fellr þegar niðr. Sigmundr ríss upp, ok gékk harmr sinn nær bana, ok tók líkit í fang sér ok ferr til skógar ok kom loks at einum firði; þar sá hann mann á einum báti litlum; sá maðr spyrr, ef hann vildi þiggja at honum far yfir fjörðinn; hann játtar því; skipit var svá lítit, at þat bar þá eigi, ok var líkit fyrst flutt, en Sigmundr gékk með firðinum. Ok því næst hvarf Sigmundi skipit ok svá maðrinn; ok eptir þat snýr Sigmundr heim, rekr nú í brott dróttningina ok litlu síðar dó hon. Sigmundr konungr ræðr nú enn ríki sínu ok þikkir verit hafa hinn mesti kappi ok konungr í fornum sið.

XI. Eylimi hefir konungr heitit, ríkr ok ágætr; dóttir hans hét Hjördís, allra kvenna vænst ok vitrust; ok þat spyrr Sigmundr konungr, at hon var við hans œði, eða engi ella. Sigmundr sœkir heim Eylima konung; hann

---

1. samir *Cd., ikke* sómir. — 9. frudi *Cd., hvilket er en nyere Form.* — 18. ferr *Cd.; skulde vel hede* berr. — 24. drottningina *Cd., ikke* drotninguna. — 27. *Cap. 11. Den røde Cap.overskr. i Cd. har jeg ikke med nogen Sikkerhed kunnet læse (det sidste Ord er mulig* konungs).

gerir veizlu í mót honum mikla, ef hann hefði eigi herferð þangat; fara nú boð þeira í milli, at með vinsemd var nú farit, en eigi með herskap; veizla þessi var ger með hinum beztum föngum ok með miklu fjölmenni. Sigmundi konungi var hvarvetna sett torg ok annarr farargreiði; koma nú til veizlu, ok skipa báðir konungar eina höll. Þar var ok kominn Lyngi konungr, son Hundings konungs, ok vill hann ok mægjast við Eylima konung; hann þikkist sjá, at þeir munu eigi hafa eitt erendi, þikkist ok vita, at úfriðar mun af þeim ván, er eigi fær. Nú mælti konungr við dóttur sína: „Þú ert vitr kona, en ek hefi þat mælt, at þú skalt þér mann kjósa; kjós nú um tvá konunga, ok er þat mitt ráð hér um, sem þitt er.“ Hon svarar: „Vant sýnist mér þetta mál, en þó kýs ek þann konung, er frægstr er, en þat er Sigmundr konungr, þótt hann sé mjök aldri orpinn“; ok var hon honum gefin, en Lyngi konungr fór í brott. Sigmundr kvángaðist ok fékk Hjördísar; var þar annan dag öðrum betr veitt eða með meira kappi. Eptir þat fór Sigmundr konungr heim í Húnaland, ok Eylimi konungr mágr hans við honum, ok gætir nú ríkis síns. En Lyngi konungr ok brœðr hans safna nú her at sér ok fara nú á hendr Sigmundi konungi, þvíat þeir höfðu jafnan minna hlut ór málum, þótt þetta biti nú fyrir; vilja þeir nú fyrirkoma kappi Völsunga; koma nú í Húnaland ok senda Sigmundi konungi orð ok vilja eigi stelast á hann, en þikkjast vita, at hann mun eigi flýja. Sigmundr konungr kvezt koma mundu til orrostu; hann dró saman her, en Hjördísi var ekit til skógar við eina ambátt, ok mikit

5. hvarvetna] haurvetna *Cd.*, *men dertil rød Streg i Margen*; hvervetna *Fas.* — 7. Lyngi; *i det pros. Stykke foran Sig. Fáfn. II, Str. 26 og i Nornag.* Lyngvi, *hvilket er den ældre Form*; *jvfr. Anmærkn. til Side 107, Linje 25.* — 13. vant *Cd.*, *ikke* vandt. — 21. Lyngi] leynge *Cd. med rød Streg under og i Margen.* — 26. fleygia *Cd*, *med rød Streg under og i Margen. Ogsaa i Sigrdrífumál skriver Cd.* fleyia *for* flýja (fløja). — 27. mundu *Cd.*, *ikke* mundi.

fé fór með þeim; hon var þar, meðan þeir börðust. Víkingar hljópu frá skipum við úvígjan her. Sigmundr konungr ok Eylimi settu upp merki sín, ok var þá blásit í lúðra. Sigmundr konungr lætr nú við kveða sitt horn, er faðir hans hafði átt, ok eggjar sína menn; hafði Sigmundr lið miklu minna; tekst þar nú hörð orrosta, ok þótt Sigmundr væri gamall, þá barðist hann nú hart ok var jafnan fremstr sinna manna; hélzt hvárki við honum skjöldr né brynja, ok gékk hann jafnan í gegnum lið úvina sinna á þeim degi, ok engi mátti sjá, hversu fara mundi þeira í millum; mart spjót var þar á lopti ok örvar; en svá hlífðu honum hans spádísir, at hann varð ekki sárr, ok engi kunni töl, hversu margr maðr féll fyrir honum; hann hafði báðar hendr blóðgar til axlar; ok er orrostan hafði staðit um hríð, þá kom maðr í bardagann með síðan hött ok heklu blá; hann hafði eitt auga ok geir í hendi; þessi maðr kom á mót Sigmundi konungi ok brá upp geirinum fyrir honum; ok er Sigmundr konungr hjó fast, kom sverðit í geirinn ok brast í sundr í tvá hluti; síðan snöri mannfallinu, ok var Sigmundi konungi horfin heill, ok féll mjök liðit fyrir honum. Konungrinn hlífði sér ekki ok eggjar mjök liðit. Nú er sem mælt, at eigi má við margnum; í þessi orrostu féll Sigmundr konungr ok Eylimi konungr mágr hans í öndverðri fylkingu ok mestr hluti liðs hans.

XII. Lyngi konungr sœkir nú til konungsbœjarins ok ætlar at taka þar konungsdóttur, en þat brást honum;

---

2. uvigian *Cd.*, *ikke* úvígan. — 4. letr *Cd.*, *ikke* lét. — 15. Siþan sidan *Cd. med rød Streg under det første Ord.* — hött] hatt *Cd.*, *hvilket er en senere Form. Jfr. S. 88, L. 8.* — 17. geirinum *Cd.*, *ikke* geirnum. — 21. lifdi *Cd.* — 22. *í foran* þessi *mgler i Cd.* — 25. *Cap. 12. Röd Cap.overskr. i Cd.* (*i den Linje, som begynder med* þesse *og ender med* Sigm. konungr) . . . . . . . ok eylima . . . . gs (*mere kunde jeg ikke læse*; *i Begyndelsen trode jeg at skimte* fall Si . .). — Lyngvi *Cd. med rød Streg under.* — bęiarins *Cd.*, *ikke* bæarins.

fékk hann þar hvárki konu né fé; hann ferr nú yfir landit ok skipar þar sínum mönnum ríkit, þikkist nú hafa drepit alla ætt Völsunga ok ætlar þá eigi munu þurfa at óttast héðan frá. Hjördís gékk í valinn eptir orrostuna um nóttina ok kom at þar, sem Sigmundr konungr lá, ok spyrr, ef hann væri grœðandi; en hann svarar: „Margr lifnar ór litlum vánum, en horfin eru mér heill, svá at ek vil eigi láta grœða mik; vill Óðinn ekki, at vér bregðum sverði, síðan er nú brotnaði; hefi ek haft orrostur, meðan honum líkaði.“ Hon mælti: „Enkis þœtti mér ávant, ef þú yrðir grœddr ok hefndir feðr míns.“ Konungr segir: „Öðrum er þat ætlat; þú ferr með sveinbarn, ok fœð þat vel ok vandliga, ok mun sá sveinn ágætr ok fremstr af várri ætt; varðveit ok vel sverðsbrotin, þar af má gera gott sverð, er heita mun Gramr ok sonr okkarr mun bera ok þar mörg stórverk með vinna, þau er aldri munu fyrnast, ok hans nafn mun uppi, meðan veröldin stendr. Uni nú við þat, en mik mœða sár, ok ek mun nú vitja frænda várra frammgenginna.“ Hjördís sitr nú yfir honum, unz hann deyr, ok þá lýsir af degi. Hon sér, at mörg skip eru komin við land; hon mælti til ambáttarinnar: „Vit skulum skipta klæðum, ok skaltu nefnast nafni mínu, ok segst konungsdóttir“; ok þær gera svá. Víkingar geta at líta mikit mannfall ok sjá, hvar konurnar fóru til skógar, skilja, at stórtíðendum man gegna, ok hlaupa af skipum; en fyrir þessu liði réð Álfr, son Hjálpreks konungs af Danmörk; hann hafði farit fyrir land framm með her sínum; koma nú í valinn, þar sjá þeir mikit mannfall. Konungrinn biðr nú at leita at konunum, ok svá gerðu þeir; hann

---

3. þurfa] þyfa *Cd.* — 7. erv *Cd.*, *ikke* er. — eigi *indsat med Fas.*, *mgler i Cd.* — 8. bregðum *burde vel hede* bregðim. — 9. haft *Cd.*; háð *Fas.* — 12. feð *Cd.*, *ikke* fæðir. — 16. *Efter* fyrnast *har Cd.*: meðan (*først skrevet* mz, *d. e.* með) verolldinn stendr, *hvilke Ord jeg med Fas. har strøget.* — 17. uni, *saa Cd.* — 19. unz, *saa Cd.* — 25. man *Cd.*

spyrr, hverjar þær væri, en þat skiptir eigi at líkendum til; ambáttin hefir svör fyrir þeim ok segir fall Sigmundar konungs ok Eylima konungs ok margs annars stórmennis ok svá, hverir gert hafa. Konungr spurði, hvárt þær vissi, hvar fé konungs væri fólgit; ambáttin svarar: „Meiri ván, at vér vitim“, ok vísar til fjárins; ok finna þeir auð mikinn, svá at eigi þóttust menn sét hafa jafnmikit saman koma í einn stað eða fleiri gersimar; bera til skipa Álfs konungs. Hjördís fylgdi honum ok svá ambáttin. Hann ferr nú heim í ríki sitt, en lætr, at þar sé fallnir þeir konungar, er frægstir váru. Konungr sezt við stjórn, en þær sátu í fyrirrúmi á skipinu; hann á tal við þær ok leggr virðing á rœður þeira. Konungr kom heim í ríki sitt við miklu fé; Álfr var manna gerviligastr. Ok er þau hafa skamma stund heima verit, spyrr dróttningin Álf son sinn: „Hví hefir hin fegri kona færi hringa eða verra búnað? ok virðist mér, at sú muni œðri, er þér hafið minna yfir látit.“ Hann svarar: „Grunat hefir mik þat, at eigi sé ambáttarmót á henni, ok þá er vér fundumst, þá tókst henni vel at fagna tignum mönnum, ok hér til skal gera eina raun.“ Þat er nú eitt sinn við drykkju, at konungr sezt á tal við þær ok mælti: „Hvat hafi þér at marki um dœgrfar, þá er nótt eldir, ef þér sjáið eigi himintungl?“ Hon svarar: „Þat mark höfum vér hér til, at ek var því vön í œsku at drekka mjök í óttu, ok er ek lét af því, vöknuðu vér eptir því síðan, ok er þat mitt mark.“ Konungr brosti at ok mælti: „Illa var konungsdóttir vönd.“ Hann hittir þá Hjördísi ok spyrr hana slíks hins sama;

---

2. svör *Fas.*] sv[r] *Cd.*, *d. e.* svar. — 4. huart *Cd.*, *ikke* hvert. — 5. ván] vǫn *Cd.* — 8. *Først var i Cd. skrevet* gest mar, *men dette er rettet til* gersemar. — 11. váru; *i Cd. var først skrevet* er, *men dette er underprikket som urigtigt og ved Siden er skrevet* v[o], *d. e.* voro. — 18. látit *Fas.*] lat *Cd.* — 22. hafi *Cd.*, *ikke* hafið.

hon svarar honum: „Faðir minn gaf mér eitt gull lítit við náttúru þá, at kólnar í óttu á fingri mér, þat er mitt mark hér um.“ Konungr svarar: „Gnótt var þar gulls, er ambáttir báru, ok munu þér œrit lengi leynzt hafa fyrir mér, ok svá munda ek til þín gert hafa, sem vit værim eins konungs börn bæði, þóttu hefðir þetta sagt, ok enn skal gera verðleikum betr við þik, þvíat þú skalt vera mín kona, ok skal ek gjalda mund við þér, þá er þú hefir barn getit.“ Hon svarar ok segir allt hit sanna um sitt ráð; er hon þar nú í miklum sóma ok þikkir hin virðuligasta kona.

XIII. Þat er nú sagt, at Hjördís fœðir sveinbarn, ok er sveinninn fœrðr Hjálpreki konungi. Konungrinn varð glaðr við, er hann sá þau hin hvössu augu, er han bar í höfði, ok sagði hann øngum mundu líkan verða eða samjafnan, ok var hann vatni ausinn með Sigurðar nafni; frá honum segja allir eitt, at um atferð ok vöxt var engi hans maki. Hann var þar fœddr með Hjálpreki konungi af mikilli ást; ok þá er nefndir eru allir hinir ágæztu menn ok konungar í fornum sögum, þá skal Sigurðr fyrir ganga um afl ok atgervi, kapp ok hreysti, er hann hefir haft um hvern mann framm annarra í norðrálfu heimsins. Sigurðr óx þar upp með Hjálpreki, ok unni hvert barn honum; hann fastnaði Álfi konungi Hjördísi ok mælti henni mund. Reginn hét fóstri Sigurðar ok var Hreiðmars son; hann kendi honum íþróttir, tafl ok rúnar ok tungur margar at mæla, sem þá var títt konungasonum, ok marga hluti aðra. Eitt sinn spurði Reginn Sigurð, er þeir váru báðir saman, ef hann vissi, hversu mikit fé faðir hans hefði átt, eða hverir þat varðveittu. Sigurðr svarar ok segir, at konungar varðveittu. Reginn mælti: „Trúir þú þeim allvel?“ Sigurðr svarar: „Þat samir, at þeir varðveiti þar til, er oss haldkvæmist, þvíat þeir kunnu betr at gæta en ek.“ Annat

2. þá, at] þat *Cd.* — 11. *Cap. 13.* *Rød Overskrift* fęddr Sig. — 13. hvössu] haussu *Cd.* — 25. tafl *Cd.*, *ikke* tabl. — 31. *Cd.* *skriver* ll *istedenfor* ld *i* haldkvæmist.

sinn kemr Reginn at máli við Sigurð ok mælti: „Kynligt er þat, er þú vilt vera hestasveinn konunga eða fara sem hlauparar.“ Sigurðr svarar: „Eigi er þat, þvíat vér ráðum öllu með þeim, er oss ok heimult þat, er vér viljum hafa.“ Reginn mælti: „Bið hann gefa þér einn hest!“ Sigurðr svarar: „Þegar mun þat, er ek vil.“ Sigurðr hittir nú konunga; þá mælti konungr við Sigurð: „Hvat viltu af oss þiggja?“ Sigurðr svarar: „Einn hest viljum vér þiggja oss til skemtanar.“ Konungrinn mælti: „Kjós þér sjálfr hest ok slíkt, er þú vill hafa af várri eigu.“ Annan dag eptir fór Sigurðr til skógar ok mœtir einum gömlum manni með síðu skeggi; sá var honum úkunnigr; hann spyrr, hvert Sigurðr skyldi fara. Hann svarar: „Hest skyldum vér kjósa; ráð um með oss!“ Hann mælti: „Förum ok rekum til árinnar, er Busiltjörn heitir.“ Þeir reka hrossin út á djúp árinnar, ok leggjast at landi, nema einn hestr, hann tók Sigurðr; hann var grár at lit ok ungr at aldri, mikill vexti ok vænn; engi hafði honum á bak komit. Skeggmaðrinn mælti: „Þessi hestr er kominn frá Sleipni, ok skal hann vandliga upp fœða, þvíat hann verðr hverjum hesti betri“; maðrinn hverfr þá. Sigurðr kallar hestinn Grana, ok hefir sá hestr beztr verit; Óðinn hafði hann hittan. Enn mælti Reginn til Sigurðar: „Oflítit fé eigu þér; þat harmar oss, er þér hlaupið sem þorpara sveinar, en ek veit mikla févän at segja þér, ok er þat meiri ván, at þat sé sómi at sœkja ok virðing, ef þú næðir.“ Sigurðr spyrr, hvar væri eða hverr varðveitti. Reginn svarar: „Sá heitir Fáfnir, er hér liggr skamt héðan á brott, þat heitir Gnítaheiðr; ok er þú kemr þar, þá muntu þat mæla: aldri sáttu meira fé í gulli í einum stað, ok eigi þarftu meira, þóttu verðir allra konunga elztr ok frægstr.“ Sigurðr svarar: „Kann ek kyn þessa orms, þótt vér sém ungir, ok hefi ek spurt, at engi þorir at koma á mót honum fyrir vaxtar sakir ok

4. heimollt *Cd.* — 15. Búsiltjörn *Fas.* — 28. *Er* hér *rigtigt?*

ilsku." Reginn svarar: „Þat er ekki; sá vöxtr er eptir hætti lyngorma, ok er gert af miklu meira, en er, ok svá mundi þótt hafa hinum fyrrum frændum þínum; ok þótt Völsunga ætt sé at þér, þá mun þú eigi hafa þeira skaplyndi, er fyrst eru taldir til alls frama." Sigurðr svarar: „Vera má, at eigi höfum vér mikit af þeira kappi eða snild, en eigi berr nauðsyn til at frýja oss, er vér erum enn lítt af barnsaldri; eða hví eggjar þú þessa svá mjök?" Reginn svarar: „Saga er til þess, ok mun ek segja þér." Sigurðr mælti: „Lát mik heyra!"

XIV. „Þat er upphaf sögu þessar, at Hreiðmarr hét faðir minn, mikill ok auðigr; son hans hét Fáfnir, en annarr hét Otr, ok var ek hinn þriði, ok var ek minstr fyrir mér um atgervi ok yfirlát; kunna ek af járni gera ok af silfri ok gulli ok hverjum hlut gerða ek nökkvat nýtt. Otr bróðir minn hafði aðra iðn ok náttúru; hann var veiðimaðr mikill ok umframm aðra menn ok var í otrs líki um daga ok var jafnan í ánni ok bar upp fiska með munni sér; veiðiföngin fœrði hann feðr sínum, ok var honum þat mikill styrkr; mjök hefir hann otrs líki á sér, kom síð heim ok át blundandi ok einn saman, þvíat hann mátti eigi sjá, at þyrri. Fáfnir var miklu mestr ok grimmastr ok vildi sitt eitt kalla

---

4. munþu *som ét Ord i Cd.* — 7. nauðsyn *skrevet* nausun *i Cd.* — erum *tilsat med Bj.*; *mangler i Cd.* — *Fas. forandrer* enn ω *til* erum. — 8. barns *skrevet* bns *i Cd.* — 11. *Cap. 14. Capiteloverskriften er aldeles udslettet i Cd.* — upphaf] upp *Cd.* — 13. otthr *Cd.* — 15. *Kanske rettere:* gulli, ok af hverjum. — gerdi *Cd.* — navkvat *Cd.* — óttr *Cd.* *Siden skrives ogsaa overalt dette Ord (baade som Appellativ og som Egennavn) med to t'er i Cd.* — 20. sid *Cd.*; síðan *Bj. og Fas.* — 21. at (*foran* þyrri), *saa Cd.* (*enten er der først skrevet* aa *og dette ændret til* at; *eller ogsaa er der fra først af skrevet* at, *som blot er blevet kludret derved, at Blækket er flydt ud*), *ikke* á. — *I Cd. er først skrevet* þyrru, *men dette er rettet til* þyrre.

láta alt þat, er var. Einn dvergr hét Andvari — segir Reginn —; hann var jafnan í forsinum, er Andvarafors heitir, í geddu líki ok fékk sér þar matar, þvíat þar var fjöldi fiska í þeim forsi. Otr bróðir minn fór jafnan í þenna fors ok bar upp fiska í munni sér ok lagði einn senn á land. Óðinn, Loki, Hœnir fóru leiðar sinnar ok kómu til Andvarafors. Otr hafði þá tekit einn lax ok át blundandi á árbakkanum. Loki tók einn stein ok laust otrinn til bana. Æsir þóttust mjök hepnir af veiði sinni ok flógu belg af otrinum. Þat kveld kómu þeir til Hreiðmars ok sýndu honum veiðina; þá tóku vér þá höndum ok lögðum á þá gjald ok fjörlausn, at þeir fyldi belginn af gulli ok hyldi hann utan með rauðu gulli. Þá sendu þeir Loka at afla gullsins; hann kom til Ránar ok fékk net hennar, fór þá til Andvarafors ok kastaði netinu fyrir gedduna, en hon hljóp í netit; þá mælti Loki:

2. „Hvat er þat fiska,
er rennr flóði í,
kannat sér við víti varask?
höfuð þitt leystu
helju ór
ok finn mér lindar loga!“

3. „Andvari ek heiti,
Óinn hét minn faðir,
margan hefik fors of farit;

*L. 1—16. Jfr. den prosaiske Indledning til Sig. Fáfn. II. — Str. 2. 3. Sig. Fáfn. II, Str. 1. 2.*

1. dcyrgr *Cd. med rød Streg under.* — 2. forsinum *Cd., ikke* fossinum; *ogsaa overalt ellers skrives Ordet med* rs, *ikke med* ss. — 4. *Cd. skriver stadig* ottr *eller* otthr. — 6. lokę hęnir *Cd.; ikke* l. ok h. — 10. flogu *Cd., ikke* flóu. — kuomu *Cd.* — 12. lögðum] sǫgdvm *Cd.* — 13. hyldi] hvldi *Cd.* — 18. Rennur *Cd.*; renn *R.* — 22. ok *mgler i R.* — lindar] lionar *Cd.*; linar *R*; líknar *Björner.* — 24. Oinn *saa R*; Oþinn *Cd.* — 25. hefik] hefi ek *Cd., R.* — um *R for* of.

aumlig norn
skóp oss í árdaga,
at ek skylda í vatni vaða."

Loki sér gull þat, er Andvari átti; en er hann hafði framm reitt gullit, þá hafði hann eptir einn hring, ok tók Loki hann af honum. Dvergrinn gékk í steininn ok mælti, at hverjum skyldi at bana verða, er þann gullhring ætti, ok svá alt gullit. Æsirnir reiddu Hreiðmari féit ok tráðu upp otrbelginn ok settu á fœtr; þá skyldu Æsirnir hlaða upp hjá gullinu ok hylja utan; en er þat var gert, þá gékk Hreiðmarr framm ok sá eitt granahár ok bað hylja. Þá dró Óðinn hringinn af hendi sér Andvaranaut ok huldi hárit Þá kvað Loki:

4. „Gull er þér nú reitt,
en þú gjöld hefir
mikil míns höfuðs;
syni þínum verðrat
sæla sköpuð,
þat er ykkarr beggja bani."

Síðan drap Fáfnir föður sinn — segir Reginn – ok myrði hann, ok náða ek øngu af fénu. Hann gerðist svá illr, at hann lagðist út, ok unni øngum at njóta fjárins nema sér ok varð síðan at hinum versta ormi ok liggr nú á því fé. Síðan fór ek til konungs ok gerðumst ek smiðr hans; ok er þessi rœða til minnar sögu, at ek missi föðurarfsins ok bróðurgjaldanna; gullit er síðan kallat otrsgjöld, ok hér dœmi af tekin." Sigurðr svarar: „Mikit hefir þú látit, ok stórillir hafa þínir frændr verit. Ger nú eitt sverð af þínum

*L. 4—12. Jfr. Sig. Fáfn. II, Str. 5 og Prosastykket foran og efter denne Strophe. — Str. 4. Sig. Fáfn. II. Str. 6.*

2. skópumk? — 5. eptir *R*] *mgler i Cd.* — *Bedre* Loki þann *R.* — 14. reitt (*saa Cd.*) *mgler i R.* — 19. verþr yccarr *R*; er ykkar *Cd.* — 28. Ger] Gior *Cd. med rød* G *og derved rød Cap.-Overskr.* Reginn gerdi gram. *Derimod betegner Cd. ikke, at der begynder et nyt Afsnit med* Reginn gerir nú (*S. 115, L. 5*).

hagleik, þat er ekki sé jafngott gert, ok ek mega vinna stórverk, ef hugr dugir, ef þú vilt, at ek drepa þenna enn mikla dreka.“ Reginn segir: „Þat geri ek með trausti, ok muntu mega drepa Fáfni með því sverði.“

XV. Reginn gerir nú eitt sverð ok fær í hönd Sigurði. Hann tók við sverðinu ok mælti: „Þetta er ilt smíði, Reginn!“ ok høggr í steðjann, ok brotnaði sverðit; hann kastar brandinum ok bað hann smíða annat betra. Reginn gerir annat sverð ok fær Sigurði; hann leit á. „Þetta mun þér líka, en vant mun yðr at smíða.“ Sigurðr reynir þetta sverð ok brýtr sem it fyrra. Þá mælti Sigurðr til Regins: „Þú munt líkr vera inum fyrrum frændum þínum ok vera útrúr“; gékk nú til móður sinnar; hon fagnar honum vel; talast nú við ok drekka. Þá mælti Sigurðr: „Hvárt höfum vér rétt til spurt, at Sigmundr konungr seldi yðr sverðit Gram í tveim hlutum?“ Hon svarar: „Satt er þat.“ Sigurðr mælti: „Fá mér í hönd! ek vil hafa.“ Hon kvað hann líkligan til frama ok fær honum sverðit. Sigurðr hittir nú Regin ok bað hann þar gera af sverð eptir efnum. Reginn reiddist ok gékk til smiðju með sverðsbrotin, ok þikkir Sigurðr framgjarn um smíðina. Reginn gerir nú eitt sverð; ok er hann bar ór aflinum, sýndist smiðjusveinum, sem eldar brynni ór eggjunum; biðr nú Sigurð við taka sverðinu ok kvezt eigi kunna sverð at gera, ef þetta bilar. Sigurðr hjó í steðjann ok klauf niðr í fótinn, ok brast eigi né brotnaði; hann lofaði sverðit mjök ok fór til árinnar með ullarlagð ok kastar í gegn straumi, ok tók í sundr, er hann brá við sverðinu; gékk Sigurðr þá glaðr heim. Reginn mælti: „Efna muni þér heit yður nú, er ek

1. *Kanské:* mega með vinna? – 2. drepa] drępi *Cd.* — 6. ilt] þitt *Cd.* — 8. gerir] gerit *Cd.* — 9. sverð] *Skriveren synes først at have skrevet* sveit, *men derpaa at have rettet dette til* sverd; sverðit *Fas.* — 21. f$^{ω}$m g$^{ω}$iarn *Cd. med rød Streg under det andet Ord.* — 24. Sigurdr *Cd. med rød Streg under.* — 27. aullar l. *Cd. med rød Streg under.*

hefi gert sverðit, ok hitta Fáfni.“ Sigurðr svarar: „Efna munum vér, ok þó annat fyrr, at hefna föður míns.“ Sigurðr var því ástsælli, sem hann var ellri, af öllu fólki, svá at hvert barn unni honum hugástum.

XVI. Gripir hét maðr ok var móðurbróðir Sigurðar; en litlu síðar, en sverðit var gert, fór hann á fund Grípis, þvíat hann var framvíss ok vissi fyrir ørlög manna. Sigurðr leitar eptir, hversu ganga man ævi hans; en hann var þó lengi fyrir ok sagði þó loksins við akafliga bœn Sigurðar öll forlög hans, eptir því sem eptir gékk síðan. Ok þá er Gripir hafði þessa hluti sagða, sem hann beiddi, þá reið hann heim. Ok brátt eptir þat finnast þeir Reginn; þá mælti hann: „Drep Fáfni, sem þér hétuð!“ Sigurðr svarar: „Gera skal þat, ok þó annat fyrr, at hefna Sigmundar konungs ok annarra frænda várra, er þar féllu í þeiri orrostu.“

XVII. Nú hittir Sigurðr konunga ok mælti til þeira: „Hér höfum vér verit um hríð, ok eigum vér yðr ástsemd at launa ok mikla virðing; en nú viljum vér ór landi fara ok finna Hundingssonu, ok vilda ek, at þeir vissi, at Völsungar væri eigi allir dauðir; viljum vér hafa þar til yðarn styrk.“ Konungar kváðust alt vilja til fá, þat er hann beiddist. Er nú búit lið mikit ok alt vandat sem mest, skip ok allr herbúnaðr, svá at hans ferð væri þá vegligri en áðr. Sigurðr stýrir dreka þeim, er mestr var ok ágætligastr; segl þeira váru mjök vönduð ok ítarlig at sjá. Sigla þeir nú góðan byr; ok er fá dœgr váru liðin, þá kom á veðr mikit með stormi, en svá var sjárinn, sem í roðru sæi. Eigi bað Sigurðr svipta seglunum, þótt rifnuðu,

---

*L. 5—10. Jfr. Gripisspá (Sig. Fáfn. I).*

---

3. ellri *Cd.*, *ikke* ellrir. — 5. *Cap. 16. Utydelig rød Cap.-overskr. i Cd.*: Sigurdr vard (?) . . . . [au]rlaugha sn̄(?). — Gripir] Grífir *Cd.* — 6. GripiS *Cd.* — 7. aurlaugh *Cd.* — 9. *Bj. indskyder* tregr *foran* fyrir. — 11. Gripir] gr^ *Cd.* — 16. *Cap. 17. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: Sigurdr drap lyngha ok hiorvard ok þa alla [bręðr?]. — 19. vildi *Cd.* — 28. *Man venter* rifnaði.

heldr bað hann hæra setja en áðr. Ok er þeir sigldu framm fyrir bergnös nökkura, þá kallaði maðr upp á skipit ok spyrr, hverr fyrir liðinu eigi at ráða. Honum var sagt, at þar var höfðingi Sigurðr Sigmundarson, er nú er frægstr ungra manna. Maðrinn svarar: „Allir segja þar eitt frá honum, at eigi megi konungasynir jafnast við hann; vilda ek, at þér feldið seglin á nökkuru skipinu, ok tœki þér við mér.“ Þeir spurðu hann at nafni. Hann svarar:

5. „Hnikar hétu mik,
þá er ek hugin gladda,
Völsungr ungi!
ok vegit hafða;
nú máttu kalla
karl af bjargi
Feng eða Fjölni,
far vil ek þiggja.“

Þeir viku at landi ok tóku karl á skip sín; þá tók af veðrit, ok fara, unz þeir koma at landi í ríki Hundingssona; þá hvarf Fjölnir. Þeir láta þegar geisa eld ok járn, drepa menn, en brenna bygðina, ok eyða þar sem þeir fara; stökkr fjöldi undan á fund Lynga konungs, ok segja, at herr er kominn í landit ok ferr með meira geysingi, en dœmi finnist til; kváðu Hundingssonu eigi langsýna, þá er þeir sögðust eigi mundu hræðast Völsunga, „en nú stýrir þessum her Sigurðr Sigmundarson.“ Lyngi konungr

---

*Str. 5. Sig. Fáfn. II, Str. 18.*

---

6. *Kanské*: engir megi? — 7. vildi *Cd.* — 10. hugin] huginn *Cd.* — gladda] gladdi *Cd.*; þá er h. gladdac *i R er det ældre Udtryk.* — 12. vegit, *saa R og Codd. af Norna-Gests þ.*] vęghat *Cd.* — hafða] hafði *Cd.* — 18. unz *Cd.* — 19. geisa *Cd.*, *ikke* geysa. — 22. geysingi, *saa Cd.* — 23. finnizt *Cd.*; finnast *Fas.*

lætr nú fara um alt sitt ríki herboð, vill eigi á flótta leggjast, stefnir til sín öllum þeim mönnum, er honum vilja lið veita; kemr nú á mót Sigurði með allmikinn her, ok brœðr hans með honum; tekst þar in harðasta orrosta með þeim; mátti þar á lopti sjá mart spjót ok örvar margar, øxi hart reidda, skjöldu klofna ok brynjur slitnar, hjálma skífða, hausa klofna ok margan mann steypast til jarðar. Ok er orrostan hefir svá staðit mjök langa hríð, sœkir Sigurðr framm um merkin ok hefir í hendi sverðit Gram; hann høggr bæði menn ok hesta ok gengr í gegnum fylkingar ok hefir báðar hendr blóðgar til axlar, ok stökk undan fólk, þar sem hann fór, ok hélzt hvárki við hjálmr né brynja, ok engi maðr þóttist fyrr sét hafa þvílíkan mann. Þessi orrosta stóð lengi með miklu mannfalli ok ákafri sókn; ferr þar, sem sjaldnar kann henda, þá er landherrinn sœkir til, at þat kom fyrir ekki; féll þar svá mart fyrir Hundingssonum, at engi maðr vissi töl á. Ok er Sigurðr var framarla í fylkingu, þá koma á mót honum synir Hundings konungs. Sigurðr høggr til Lynga konungs ok klýfr hjálm hans ok höfuð ok brynjaðan búk, ok síðan høggr hann Hjörvarð, bróður hans, sundr í tvá hluti, ok þá drap hann alla Hundingssonu, er eptir lifðu, ok mestan hluta liðs þeira. Ferr Sigurðr nú heim með fögrum sigri ok miklu fé ok ágæti, er hann hafði fengit í þessi ferð; váru nú veizlur gervar í mót honum heima í ríkinu. — Ok er Sigurðr hefir skamma stund heima verit, kemr Reginn at máli við Sigurð ok segir: „Nú munu þér vilja steypa hjálminum Fáfnis, svá sem þér hétuð, þvíat nú hefir þú hefnt föður þíns ok annarra frænda þinna.“ Sigurðr svarar:

---

7. skyfda *Cd.* — 13. þilikan *Cd.* — 14. þersę *Cd.* — 17. er *Fas.*] *mgler i Cd.* — 18. koma *Fas.*] kama (*derefter er en Bogstav udraderet*) *Cd. med Krøl under den første* a. — 27. Sigurð] Sigurdr *Cd.* — 29. þinna] *i Cd. er først skrevet* Sinna, *men* S *er overstreget.*

„Efna munu vér þat, sem vér höfum þar um heitit, ok ekki fellr oss þat ór minni.“

XVIII. Nú ríða þeir Sigurðr ok Reginn upp á heiðina á þann farveg, er Fáfnir var vanr at skríða, er hann fǫr til vatns, ok þat er sagt, at sá hamarr var þrítugr, er hann lá at vatni, þá er hann drakk. Þá mælti Sigurðr: „Þat sagðir þú, Reginn! at dreki sjá væri eigi meiri en einn lyngormr, en mér sýnast vegar hans æfar miklir.“ Reginn mælti: „Ger gröf eina ok sezt þar í; ok þá er ormrinn skríðr til vatns, legg þá til hjarta honum ok vinn honum svá bana; þar fyrir fær þú mikinn frama.“ Sigurðr mælti: „Hversu man þá veita, ef ek verð fyrir sveita ormsins?“ Reginn svarar: „Eigi má þér ráð ráða, er þú ert við hvatvetna hræddr, ok ertu úlíkr þínum frændum at hughreysti.“ Nú ríðr Sigurðr á heiðina, en Reginn hverfr í brott yfrit hræddr. Sigurðr gerði gröf eina; ok er hann er at þessu verki, kemr at honum einn gamall maðr með síðu skeggi ok spyrr, hvat hann gerir þar; hann segir; þá svarar inn gamli maðr: „Þetta er úráð; ger fleiri grafar ok lát þar í renna sveitann, en þú sit í einni ok legg til hjartans orminum!“ Þá hvarf sá maðr á brottu; en Sigurðr gerir grafar eptir því, sem fyrir var lagt. Ok er ormrinn skreið til vatns, varð svá mikill landskjálfti, svá at öll jörð skalf í nánd; hann fnýsti eitri alla leið fyrir sik framm, ok eigi hræddist Sigurðr né óttast við þann gný. Ok er ormrinn skreið yfir gröfina, þá leggr Sigurðr sverðinu undir bœxlit vinstra, svá at við hjöltum nam. Þá hleypr Sigurðr upp ór gröfinni ok kippir at sér sverðinu ok hefir allar hendr blóðgar upp til axlar. Ok er enn mikli ormr kendi síns banasárs, þá laust hann höfðinu ok sporðinum, svá at alt

3. *Cap. 18. Rød Cap.-overskr. i Cd.:* Nv Rida þeir Reginn ok sig*urdr*. — 11. fær *Fas.*] feR *Cd.* — 13. hvatvetna] hvartvętna *Cd.* — 23. landskiafte *Cd.* — 25. hræðist? — 27. Þá hleypr — til axlar *burde vel staa efter* Ok er enn mikli — fyrir varð; *jfr. den prosaiske Indledning til Fáfnism.* — 28. *grafínne* *Cd.*

brast í sundr, er fyrir varð. Ok er Fáfnir fékk banasár, spurði hann: „Hverr ertu, eða hverr er þinn faðir, eða hver er ætt þín, er þú vart svá djarfr, at þú þorðir at bera vápn á mik?“ Sigurðr svarar: „Ætt mín er mönnum úkunnig, ek heiti göfugt dýr, ok á ek engan föður né móður, ok einn saman hefi ek farit.“ Fáfnir svarar: „Ef þú átt engan feðr né móður, af hverju undri ertu þá alinn? ok þótt þú segir mér eigi þitt nafn á banadœgri mínu, þá veiztu, at þú lýgr nú.“ Hann svarar: „Ek heiti Sigurðr, en faðir minn Sigmundr.“ Fáfnir svarar: „Hverr eggjaði þik þessa verks, eða hví léttu at eggjast? hafðir þú eigi frétt þat, hversu alt fólk er hrætt við mik ok við minn œgishjálm? enn fráneygi sveinn! þú áttir feðr snarpan.“ Sigurðr svarar: „Til þessa hvatti mik enn harði hugr, ok stoðaði til, at gert yrði, þessi en sterka hönd ok þetta it snarpa sverð, er nú kendir þú, ok fár er gamall harðr, ef hann er í bernsku blautr.“ Fáfnir segir: „Veit ek, ef þú vex upp með frændum þínum, at þú mundir kunna at vega reiðr, en þetta er meiri furða, er einn bandingi hertekinn skal þorat hafa at vega at mér, þvíat fár hernuminn er frœkn til vígs.“ Sigurðr mælti: „Bregðr þú mér, at ek væra fjarri mínum frændum; en þótt ek væra hernuminn, þá var ek þó eigi heptr, ok þat fanntu, at ek var lauss.“ Fáfnir svarar: „Heiptyrði tekr þú hvetvetna því, er ek

*L. 2—24. Jfr. Fáfnismál Str. 1—8 og Str. 9, L. 1. 2.*

1. fékk banasár; *man skulde vente* sér banamann sinn. — 3. hver] hverR *Cd.* — þorðir] þorir *Cd.* — 7. engan *Fas.*] eí$^{m}$ng *Cd.* — moður] mǫðr *Cd.*, *senere Form analog med* feðr. — 13. enn] en *Cd.* — 17. blautr *Cd.*, *saaledes ogsaa to Hskrr. af Sverris s.*, *hvor Fáfnism. Str. 6, L. 3—6 anføres; det ældre Udtryk er* blauðr *som R (af Sæmundar Edda) og de bedste Codd. af Sverris s. har.* — 18. vex *Fas.*] vęx *Cd. Kanské* vęxir = yxir; *Fáfnism. Str. 7, L. 1 har* vaxa næðir. — 19. badíngi *med rød Streg under Cd.* — 21. er *mgler i Cd.* — Því bregðr *Fáfnism.* — 22. *Fas. sætter ? efter* frændum. — 24. hvetvettna því *Cd.*, *kanské* hvetvetna þat *eller* hvervetna í því; *Fáfnism. Str. 9, L. 2 har:* telr þú þér í hvívetna.

mæli, en gull þetta mun þér at bana verða, er ek hefi átt." Sigurðr svarar: „Hverr vill fé hafa alt til ens eina dags, en eitt sinn skal hverr deyja." Fáfnir mælti: „Fátt vill þú at mínum dœmum gera, en drukna muntu, ef þú ferr um sjá úvarliga, ok bíð heldr á landi, unz logn er." Sigurðr mælti: „Seg þú þat, Fáfnir! ef þú ert fróðr mjök: hverjar eru þær nornir, er kjósa mögu frá mœðrum?" Fáfnir svarar: „Margar eru þær ok sundrlausar, sumar eru Ása ættar, sumar eru Álfa ættar, sumar eru dœtr Dvalins." Sigurðr mælti: „Hve heitir sá hólmr, er blanda hjörlegi Surtr ok Æsir saman?" Fáfnir svarar: „Hann heitir Úskaptr." Ok enn mælti Fáfnir: „Reginn bróðir minn veldr mínum dauða, ok þat hlœgir mik, er hann veldr ok þínum dauða, ok ferr þá, sem hann vildi." Enn mælti Fáfnir: „Ek bar œgishjálm yfir öllu fólki, síðan ek lá á arfi míns bróður, ok svá fnýsta ek eitri alla vega frá mér í brott, at engi þorði at koma í nánd mér, ok engi vápn hræddumst ek, ok aldri fann ek svá margan mann fyrir mér, at ek þœttumst eigi mikla sterkari, en allir váru hræddir við mik." Sigurðr mælti: „Sá œgishjálmr, er þú sagðir frá, gefr fám sigr, þvíat hverr sá, er með mörgum kemr, má þat finna eitthvert sinn, at engi er einna hvatastr." Fáfnir svarar: „Þat ræð ek þér, at þú takir hest þinn ok ríðir á brott sem skjótast, þvíat þat hendir opt, at sá, er banasár fær, hefnir sín sjálfr." Sigurðr segir: „Þetta eru þín ráð, en annat mun ek gera; ek mun ríða til þíns bóls

*L. 1—12. Jfr. Fáfnism. Str. 9, L. 3—15.—L. 12—14. Jfr. Fáfn. Str. 22, L. 1—3. — L. 15—26. Jfr. Fáfn. Str. 16—Str. 21, L. 3.*

2. ens] eñ *Cd.* — 5. unzt *Cd.* — 7. mögu frá mœðrum] maugr *fra* medrum *Cd.* *I Fáfnism. Str. 12, L. 6 har R* kiosa mǫþr *fra* magom. — 8. ok *Fas.*] *mgler i Cd.* — 11. surt *Cd.* — 12. Úskaptr; *i Fáfn. Str. 15, L. 2 har R rettere* Oscopnir, *d. e.* Óskópnir. — 16. bróður] broðurs *Cd.*; *i Fáfnism. Str. 18* föður. — 17. í nánd] ínad *Cd.* — 24. skjótast] skioast *Cd.*

ok taka þar þat it mikla gull, er frændr þínir hafa átt.“ Fáfnir svarar: „Ríða muntu þar til, er þú finnr svá mikit gull, at gert er um þína daga, ok þat sama gull verðr þinn bani ok hvers annars, er þat á.“ Sigurðr stóð upp ok mælti: „Heim munda ek ríða, þótt ek mista þessa ens mikla fjár, ef ek vissa, at ek skylda aldri deyja, en hverr frœkn maðr vill fé ráða alt til ins eina dags; en þú, Fáfnir! ligg í fjörbrotum, þar er þik Hel hafi“; ok þá deyr Fáfnir.

XIX. Eptir þetta kom Reginn til Sigurðar ok mælti: „Heill, herra minn! mikinn sigr hefir þú unnit, er þú hefir drepit Fáfni, er engi varð fyrr svá djarfr, at á hans götu þorði sitja, ok þetta fremðarverk mun uppi, meðan veröldin stendr.“ Nú stendr Reginn ok sér niðr í jörðina langa hríð; ok þegar eptir þetta mælti hann af miklum móði: „Bróður minn hefir þú drepit! ok varla má ek þessa verks saklauss vera.“ Nú tekr Sigurðr sitt sverð Gram ok þerrir á grasinu, ok mælti til Regins: „Ferri gékk þú þá, er ek vann þetta verk, ok ek reynda þetta snarpa sverð með minni hendi, ok mínu afli atta ek við orms megin, meðan þú látt í einum lyngrunni, ok vissir þú eigi, hvárt er var himinn eða jörð.“ Reginn svarar: „Þessi ormr mætti lengi liggja í sínu bóli, ef eigi hefðir þú notit sverðs þess, er ek gerða þér minni hendi, ok eigi hefðir þú þetta enn

---

*L. 1. Jfr. Fáfn. Str. 21, L. 3. — L. 2—4. Jfr. Fáfn. Str. 20, L. 4—6. — L. 7. Jfr. Fáfn. Str. 10, L. 1—3. — L. 7—8. Jfr. Fáfn. Str. 21, L. 4—6. — L. 10—12. Jfr. Fáfn. Str. 23. — L. 15—16. Jfr. Fáfn. Str. 25, L. 4—6. — L. 17—23. Jfr. Fáfn. Str. 28. 29.*

---

1. it *i Cd. skrevet* ed. — 3. gert *Fas., saa kan læses i Cd., hvor dog Ordet er utydeligt.* — 5. m'sta *Cd.* — 9. *Cap. 19. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: Regínn drack blod fafniS. — 17. fęrri *Cd. d. s. s.* fjarri. — 19. hendi, ok mínu afli atta ek (*af* etja); *jvfr. Fáfn. Str. 28, L. 4*: afli mínu atta ek; *Fas. har*: hendi ok mínu afli, átta ek. — 20. eigi *Fas.*] *mgler i Cd.* — 21. er] eð *Cd., senere Form.* — 23. þú *Fas.*] *mgler i Cd.* — enn, *saa Cd.*; einn *Fas.*

unnit ok engi annarra." Sigurðr svarar: „Þá er menn koma til vígs, þá er manni betra gott hjarta, en hvast sverð." Þá mælti Reginn við Sigurð af áhyggju mikilli: „Þú drapt minn bróður, ok varla má ek þessa verks sak- lauss." Þá skar Sigurðr hjartat ór orminum með því sverði, er Riðill hét. Þá drakk Reginn blóð Fáfnis ok mælti: „Veit mér eina bœn, er þér er lítit fyrir: gakk til elds með hjartat ok steik, ok gef mér at eta." Sigurðr fór ok steikti á teini; ok er freyddi ór, þá tók hann fingri sínum á ok skynjaði, hvárt steikt væri; hann [brann ok] brá fingrinum í munn sér; ok er hjartablóð ormsins kom á tungu honum, þá skildi hann fuglarödd; hann heyrði, at igður klökuðu á hrísinu hjá honum: „Þar sitr Sigurðr ok steikir Fáfnis hjarta; þat skyldi hann sjálfr eta, þá mundi hann verða hverjum manni vitrari." Önnur segir: „Þar liggr Reginn ok vill véla þann, sem honum trúir." Þá mælti en þriðja: „Höggvi hann þá höfuð af honum, ok má hann þá ráða gullinu því enu mikla einn." Þá mælti en fjórða: „Þá væri hann vitrari, ef hann hefði þat, sem þær höfðu ráðit honum, ok riði síðan til bóls Fáfnis ok tœki þat et mikla gull, er þar er, ok riði síðan upp á

---

*L. 1—3. Jfr. Fáfnism. Str. 30. — L. 4. Jfr. Fáfn. Str. 25, L. 4—6. — L. 5—8. Jfr. Fáfn. Prosast. efter Str. 26; Str. 27. — L. 9—21. Jfr. Fáfn. Prosast. efter Str. 31; Str. 32—35, L. 4.*

---

2. hvast *Fas.*] havst *Cd.* — 5. skar Reginn? *jfr. Fáfnism.* — 10. brann ok *mgler i Cd.; tilføiet efter Prosastykket i Fáfn.* (*min Udg. S. 224 b L. 1*). — 13. Þar *med meget stor* Þ *i Cd., som her begynder nyt Cap., hvis Overskrift er* (*med rødt*)*:* Sigvrðr at hiartað. — *Efter* sitr *har Cd.* þú, *hvilket jeg har udeladt, da der fortsættes med* hann; *jvfr. Fáfn. Str. 32, L. 1:* Þar sitr Sigurðr. — 14. fafnís *Cd.* — skyldi *Fas.*] ski *Cd.* — 16. vęla *Cd.* — 17. en þriðja *Fas.*] eñ þriðe *Cd. med rød Streg under* e *i andet Ord.* — 20. þær höfðu; *kanské* þér höfðuð. — riði; *i Cd. synes først at have været skrevet* ʀíþn, *men sidste Bogstav af den gamle Skriver selv at være rettet til* e, *altsaa* ʀíþe. — Fáfnis] famnes *Cd. understrøget med rød Streg.*

Hindarfjall, þar sem Brynhildr sefr, ok mun hann nema þar mikla speki, ok þá væri hann vitr, ef hann hefði yður ráð ok hygði hann um sína þyrft, ok þar er mér úlfsins ván, er ek eyrun sá.“ Þá mælti en fimta: „Eigi er hann svá horskr, sem ek ætlaða, ef hann vægir honum, en drepit áðr bróður hans.“ Þá mælti en sétta: „Þat væri snjallræði, ef hann dræpi hann ok réði einn fénu.“ Þá mælti Sigurðr: „Eigi munu þau úsköp, at Reginn sé minn bani, ok heldr skulu þeir fara báðir brœðr einn veg“; bregðr nú sverðinu Gram ok høggr höfuð af Regin; ok eptir þetta etr hann suman hlut hjartans ormsins, en sumt hirðir hann; hleypr síðan á hest sinn ok reið eptir slóð Fáfnis ok til hans herbergis ok fann, at þat var opit, ok af járni hurðirnar allar ok þar með allr dyra-umbúningrinn, ok af járni allir stokkar í húsinu, ok grafit i jörð niðr. Sigurðr fann þar stórmikit gull ok sverðit Hrotta, ok þar tók hann œgishjálm ok gullbrynjuna ok marga dýrgripi. Hann fann þar svá mikit gull, at honum þótti ván, at eigi mundi meira bera tveir hestar eða þrír; þat gull tekr hann alt ok berr í tvær kistur miklar, tekr nú í tauma hestinum Grana; hestrinn vill nú eigi ganga, ok ekki tjár at keyra. Sigurðr finnr nú, hvat hestrinn vill, hleypr hann á bak ok lýstr hann sporum, ok rennr sjá hestr, sem lauss væri.

XX. Sigurðr ríðr nú langar leiðir, ok alt til þess, er hann kemr upp á Hindarfjall, ok stefndi á leið suðr til Frakklands; á fjallinu sá hann fyrir sér ljós mikit, sem eldr brynni, ok ljómaði af til himins; en er hann kom at, stóð þar

*L. 1. Jfr. Fáfn. Str. 42—44. — L. 2—9. Jfr. Fáfn. Str. 35—36. 38—39. — L. 12—23. Jfr. Fáfn. Prosast. ved Enden. — L. 24—27. Jfr. Sigrdrífumál Prosast. i Begyndelsen.*

5. hoskr *Cd.* — ætlaða] ętla *Cd*; *jvfr. Fáfn. Str. 36:* sem ek . . . hyggja mundak. — 7. einn *Fas.*] enn *Cd.*; *jvfr.* einvaldi *Fáfn. Str. 38, L. 6.* — 12. fafnis *Cd.* — 17. Hann] honum *med rød Streg under Cd.* — 20. *Efter* miklar *burde følge* ok klyfjar þar með Grana *el. lign.* — 21. keyra *Cd., ikke* keira. — 24. *Cap. 20. Rød Cap.-overskr. i Cod.: fra* Sigurde. — 27. hann *R*] *mgler i Cd.*

fyrir honum skjaldborg ok upp ór merki. Sigurðr gékk í skjaldborgina ok sá, at þar svaf maðr ok lá með öllum hervápnum; hann tók fyrst hjálminn af höfði honum ok sá, at þat var kona; hon var í brynju, ok var svá föst, sem hon væri holdgróin; þá reist hann ofan ór höfuðsmátt ok í gegnum niðr, ok svá út í gegnum baðar ermar, ok beit sem klæði. Sigurðr kvað hana helzti lengi sofit hafa. Hon spurði, hvat svá var máttugt, er beit brynjuna, „ok brá mínum svefni: eða man hér kominn Sigurðr Sigmundarson, er hefir hjálm Fáfnis ok hans bana í hendi?“ Þá svarar Sigurðr: „Sá er Völsunga ættar, er þetta verk hefir gert, ok þat hefi ek spurt, at þú ert ríks konungs dóttir, ok þat sama hefir oss sagt verit frá yðrum vænleik ok vitru, ok þat skulu vér reyna.“ Brynhildr segir, at tveir konungar börðust, hét annarr Hjálmgunnarr; hann var gamall ok hinn mesti hermaðr, ok hafði Óðinn honum sigri heitit; en annarr Agnarr eða Auðabróðir; „ek felda Hjálmgunnar í orrostu, en Óðinn stakk mik svefnþorni í hefnd þess ok kvað mik aldri síðan skyldu sigr hafa ok kvað mik giptast skulu; en ek strengda þess þar heit í mót at giptast engum þeim, er hræðast kynni.“ Sigurðr mælti: „Kenn oss ráð til stórra hluta!“ Hon svarar: „Þér munuð betr kunna, en með þökkum vil ek kenna yðr, ef þess er nökkut, er vér kunnum, þat er yðr mætti líka, í rúnum eða öðrum hlutum, er liggja

*L. 1—22. Jfr. Sigrdrífumál den prosaiske Indledning, Str. 1 og Prosastykket efter Str. 4.*

1. vpp or *Cd.*, *ikke* uppá. — 6. gęgnum *Cd.* — gaugnum *Cd.* — 7. hellte *Cd. med rød Streg under.* — 12. þat sama; *kanské* svá it sama? — 14. reyna] ręína *Cd.* — tveir] tueR *Cd.* — 17. Agnarr eða Auðabróðir *rettere* Agnarr Auðu-(Öðu-?)bróðir; *jvfr. Sigrdr. mellem Str. 4 og 5 (min Udg. S. 229 a, L. 7—8), hvor R feilagtig har* haþo *for* aþo, *og Helreið Brynh. Str. 8.* — 21. kynni *R*] kunni *Cd.* — 23. vil ek *Fas.*] *mgler i Cd.* — 24. lutum *Cd.*; *kanské* listum.

til hvers hlutar, ok drekkum bæði saman, ok gefi goðin okkr góðan dag, at þér verði nyt ok frægð at minum vitrleik ok þú munir eptir, þat er vit rœðum.“ Brynhildr fyldi eitt ker ok fœrði Sigurði ok mælti:

6. „Bjór fœri ek þér,
brynþings apaldr!
magni blandinn
ok megintíri;
fullr er ljóða
ok líknstafa,
góðra galdra
ok gamanrúna.

7. Sigrúnar skaltu kunna,
ef þú vilt snotr vera,
ok rísta á hjalti hjörs,
á vettrimum
ok á valböstum,
ok nefna tysvar Tý.

8. Brimrúnar skaltu gera,
ef þú vilt borgit hafa

*L. 1—4. Jfr. Sigrdr. Str. 3. 4 og Prosastykket foran Str. 3. — Str. 6. 7. 8. Sigrdr. Str. 5. 6. 10.*

1. *I Cd. var først skrevet* gefiñ ockr, *men* ñ *er overstrøget og over Linjen mellem de to Ord er skrevet* godiñ, *altsaa* gefi godiñ ockr. — 5. Bíor *er skrevet med rødt i Cd., saa og første Ord i de følgende tre Stropher.* — 6. brynþings apaldr *R*] brynþinga valldr *Cd.* — 8. meginn tíre *Cd.* (*ikke* týri). — 9. lioþa *R, som derforan har* hann, *hvilket neppe burde mangle*] liona *Cd.* — 12. gamanrvna *R*] gamanręðna *Cd.* — 13. þv scalt *R her for* skaltu. — rista *R for* kunna. — 14. sigr hafa *R bedre for* snotr vera. — 15. rista *R*] rist *Cd.* — 16. a vetrimom *R, som foran bedre har* svmar] avett Runum *Cd.* — 17. svmar *R bedre for* ok. — valbꜹstum *R*] valbystum *Cd.* — 18. tysvar *saa Cd. og R, ikke* tvisvar. — 19. *For* gera (*saa Cd.*) *har R* rista.

á sundi seglmörum;
á stafni skal þær rísta
ok á stjórnar blaði,
ok leggja eld í ár;
fellrat svá brattr breki
né blár unnir,
þó kømstu heill af hafi.

9. Málrúnar skaltu kunna,
ef þú vilt, at mangi þér
heiptum gjaldi harm;
þær um vindr,
þær um vefr,
þær um setr allar saman
á því þingi,
er þjóðir skulu
í fulla dóma fara.

10. Ölrúnar skaltu kunna,
ef þú vilt, annars kvæn
vélit þik í trygð, ef þú trúir;
á horni skal þær rísta
ok á handar baki,
ok merkja á nagli Nauð.

---

*Str. 9. 10. Sigrdrífumál Str. 12. 7.*

---

2. þær *mgler i R.* — 5. fellrat] fallat *Cd.;* era *R.* -- 6. né blár *Cd.*; *bedre* né svá blár *R.* — vnnir *R*] vndir *Cd.* — 7. kǫmztv *R*] kemst *Cd.* — 9. vilt at mangi *R*] att mage *Cd.* — 10. gialdi *R*] gialda *Cd.* — 15. þioþir *R*] menn *Cd.* — 18—19. vill annars qvęn vęlit þic itrygd *R*; villt a annaz kueñ (e *er her lukket som ø*) veli þic eigi trygð *Cd.* *Man tør neppe tænke paa:* viltat, annars kvæn véli þik. — 20. þær *R*] þat *Cd.*

11. Full skaltu signa
ok við fári sjá
ok verpa lauk í lög;
þá ek þat veit,
at þér verðr aldri
meinblandinn mjöðr.

12. Bjargrúnar skaltu nema,
ef þú vilt borgit fá
ok leysa kind frá konu;
á lófa skal þær rísta
ok um liðu spenna
ok biðja dísir duga.

13. Limrúnar skaltu kunna,
ef þú vilt læknir vera
ok kunna sár at sjá;
á berki skal þær rísta
ok á barri viðar,
þess er lúti austr limar.

14. Hugrúnar skaltu nema,
ef þú vilt hverjum vera

---

*Str. 11. 12. 13. 14. Sigrdr. Str. 8. 9. 11. 13.*

---

1. Full, *saa ændret efter R, som skriver Ordet med liden* f] avl *Cd. med liden* a *og derforan ikke Punctum.* — scal *R.* — 2. faré *Cd.*, fari *R.* — 3. la/ki *R.* — 4—6 *er udeladte i R.* — 7. kvnna *R for* nema. — 8. biarga vilt *R for* vilt borgit fá. — 9. kiñd *Cd.;* kinð *R.* — kono*m* *R for* konu. — 10. alofo þęr scal *R mindre godt.* — 11. of *for* um *R.* — 12. *Efter* biþia *har R* þá. — 17. *R har vistnok bedre* badmi *for* barri. — 18. *R har vistnok bedre* þeim er luta *for* þess er lúti (lute *Cd.*) — 19. *R har* kunna *for* nema.

geðhorskari guma;
þær of réð,
þær of reist,
þær of hugði Hroptr.

15. Á skildi váru ristnar,
þeim er stendr fyr skíǫanda guði,
[á eyra Árvakrs
ok á] Alsvinns hófi,
ok á því hveli, er steṇdr
undir reið Rögnis,
á Sleipnis tönnum
ok á sleða fjötrum.

16. Á bjarnar hrammi
ok á Braga tungu,
á úlfs klóm

---

*Str. 15. 16. Sigrdrífum. Str. 15. 16.*

---

1. geðhoskari *Cd.*, geðsvinnari *R.* — 4. *Efter* Hroptr *har R følgende 10 Linjer, som mangle i Cd.:*

af þeim legi,
er leciþ hafdi
or hꜹsi Heiddrꜹpniss
oc or horni Hoddrofnis.
A biargi stoþ
meþ Brimis eggiar,
hafdi ser a hofði hialm;
þa mȩlti Mims hꜹfvþ
froþlict iþ fyrsta orð
oc sagdi sanna stafi.

5. voru *Cd.;* qvaþ *R.* — 6. fyr *R*] fyrir *Cd.* — guði *Cd.; rettere* goði *R.* — 7—8. á eyra Árvakrs ok á, *indsat efter R*] *mgler i Cd.* — 8. alsvinnz *R*, alsvins *Cd.* — hófi *R*] höfði *Cd.* — 9. ok *mgler bedre i R.* — *R har for* stendr *bedre* snyz. — 10. Raugnis *Cd.*; rꜹngnis *R*, *d. e.* Rungnis; *det rette er, som Stavrimet viser*, Hrungnis. — 11. tonnom *R*] taumum *Cd.* — 13. hrammi *R*] $^{h}$ame *Cd.*

ok á arnar nefi,
á blóðgum vængjum
ok á brúar sporði,
á lausnar lófa
ok á líknar spori.

17. Á gleri ok á gulli
ok á góðu silfri,
í víni ok í virtri
ok á völu sessi,
† í guma holdi,
á Gungnis oddi
ok á gýgjar brjósti,
á nornar nagli
ok á nefi uglu.

18. Allar váru af skafnar,
þær er á váru ristnar,
ok hrœrðar við inn helga mjöð
ok sendar á víða vegu;
þær 'ru með Álfum,
sumar með Ásum

*Str. 17. 18. Sigrdrífum. Str. 17. 18.*

1. nefi *R*] nefíu *Cd.* — 5. a *mgler i Cd.* — 6. *Liden* a *foran* gleri *i Cd. og R (i R med, i Cd. uden Punctum foran).* — 7. *For* góðu silfri *(saa Cd.) har R* gvmna heillom; *jvfr. Anmærkn. til L. 10.* —8. *Andet* i *mgler i R.* — 9. á vavlu sessi *Cd.*; vili sessi *R.* — 10. í guma hollde *Cd.*; *denne Linje, som spilder Versemaalet og som mgler i R, er egentlig en Variant til L. 7, hvor R har* a gvmna heillom. — 11. Agvngnis *R*] ok gaupnis *Cd.* — 12. *For* gýgjar *har R rettere* Grana. — 15. allar *med liden* a, *men med Punctum foran i Cd. og R.* — 16. á voru *Cd.*; vóro a *R.* — 17. hrœrðar] hręðar *Cd.;* hverfðar *R.* — 18. vegu *Cd.*; vega *R.* — 19. ro *R;* eru *Cd.* — meþ asom *R rettere for* með Álfum. — 20. þęʀ ro meþ alfom *R rettere for* sumar með Ásum.

ok með vísum Vönum,
sumar hafa menskir menn.

19. Þat eru bókrúnar
ok bjargrúnar
ok allar ölrúnar,
ok mærar meginrúnar,
hverjum, er þær kná úviltar
ok úspiltar
sér at heillum hafa.
Njóttu, ef þú namt,
unz rjúfask regin!

20. Nú skaltu kjósa,
alls þér er kostr of boðinn,
hvassa vápna hlynr!
sögn eða þögn
haf þú þér sjálfr of hug!
öll eru mál of metin."

---

*Str. 19. 20. Sigrdrífum. Str. 19. 20.*

---

1. svmar *R rettere for* ok. — va/nom *R*] vanum *Cd.* – 3. þat *med liden* þ *i Cd.*, *men med stor* Þ *i R*, *i begge Hskrr. med Punctum foran.* — 4. þat ero *R for* ok. – 5. a/l r. *R*] alrunar *Cd.* — 6. męʀar *Cd.*; mętar *R. Efter dette Ord har Cd.* ok, *som mgler i R og som jeg har strøget.* — 7. *For* hverjum *har R* hveim, *som vist her er oprindeligere.* — 8. oc ospilltar *R*] of viltar *Cd.* — 9. heillum *Cd.*, *den anden* l *underprikket;* heillom *R.* — 10. Njóttu *med* N *i Cd.*, *men med* n *i R.* — 11. rivfaz *R*] riufa *Cd.* — 12. skaltu *feilagtig skrevet to Gange i Cd.* — 13. of *Cd.*; vm *R.* — 14. vapna *R*; vópna *Cd.* — 15. sa/gn *R*] saungh *Cd.* — 16. *For* of hug *har R bedre* i hvg. — 17. mein *R for* mál.

Sigurðr svarar:

21. „Munkat ek flœja,  
þótt mik feigan vitir,  
emkat ek með bleyði borinn;  
ástráð þín  
vil ek öll of hafa  
svá lengi sem ek lifi.“

XXI. Sigurðr mælti: „Aldri finnst þér vitrari kona í veröldu, ok kenn enn fleiri spekiráð!“ Hon svarar: „Heimilt er þat at gera at yðrum vilja ok gefa heilræði fyrir yðra eptirleitan ok vitrleik.“ Þá mælti hon: „Ver vel við frændr þína ok hefn lítt mótgerða við þá ok ber við þol, ok tekr þú þar við langæligt lof. Sé við illum hlutum, bæði við meyjar ást ok manns konu, þar stendr opt ilt af. Verð lítt mishugi við úvitra menn á fjölmennum mótum; þeir mæla opt verra, en þeir viti, ok ertu þegar bleyðimaðr kallaðr ok ætlaðr, at þú sér sönnu sagðr; drep hann annars dags ok gjalt honum svá heiptyrði. Ef þú ferr þann veg, er vándar vættir byggja, ver varr um þik; tak þér ekki herbergi nær götu, þótt þik nátti, því at opt búa þar illar vættir, þær menn villa. Lát eigi tæla þik fagrar konur, þótt þú sjáir at veizlum, svá at þat standi þér fyrir svefni eða þú fáir af því hugarekka; teyg þær ekki at þér með kossum eða annarri blíðu;

---

*Str. 21. Sigrdrífum. Str. 21. — L. 11—13. Jfr. Sigrdr. Str. 22. — L. 13—15. Jfr. Sigrdr. Str. 32. — L. 15—24. Jfr. Sigrdr. Str. 24—28.*

---

2. Mvnkað *Cd.;* Munca *R.* — fleyia *Cd.*; flǫia *R.* — 4. emca *R.* — meþ *R*] *mgler i Cd.* — 6. vil ek *Cd.;* ek vil *R.* — of *mgler i R.* — 8. *Cap. 21. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: Speki Rad brynhillda[r]. — 9. kenn mér (*eller* oss) enn? — 13. Se *Cd.* (*med rød Prik under*), *ikke* Sjá. — 17. ætlaðr *Bj.*] ętlar *Cd.* — *Eller er det rette:* ætlat? — 21. vettir *Cd.* — þær, *oprindelig vel* þær er.

ok ef þú heyrir heimslig orð drukkinna manna, deil eigi við þá, er víndruknir eru ok tapa viti sínu; slíkir hlutir verða mörgum at miklum móðtrega eða bana. Berst heldr við úvini þína, en þú sér brendr; ok sver eigi rangan eið, þvíat grimm hefnd fylgir griðrofi. , Ger rœkiliga við dauða menn, sóttdauða eða sædauða eða vápndauða; búðu vandliga um lík þeira; ok trú ekki þeim, er þú hefir feldan fyrir föður eða bróður eða annan náfrænda, þótt ungr sé; opt er úlfr í ungum syni. Sé vandliga við vélráðum vina þinna; en lítt megu vér sjá fyrir um yðart líf, en eigi skyldi mága hatr á þik koma.“ Sigurðr mælti: „Engi finnst þér vitrari maðr; ok þess sver ek, at þik skal ek eiga, ok þú ert við mitt œði.“ Hon svarar: „Þik vil ek helzt eiga, þótt ek kjósa um alla menn“; ok þetta bundu þau eiðum með sér.

XXII. Nú ríðr Sigurðr á brott; hans skjöldr var svá markaðr: laugaðr í rauðu gulli ok skrifaðr á einn dreki; hann var døkkbrúnaðr it efra, en fagrrauðr it neðra, ok þann veg var markaðr hans hjálmr ok söðull ok vápnrokkr; hann hafði gullbrynjuna, ok öll hans vápn váru gulli búin; ok því var dreki markaðr á hans vápnum öllum, at, er

---

*L. 1—4. Jfr. Sigrdr. Str. 29—31. — L. 4—5. Jfr. Sigrdr. Str. 23. — L. 5—9. Jfr. Sigrdr. Str. 33—35. — L. 9—11. Jfr. Sigrdr. Str. 37. — L. 16—21. Jfr. Þiðriks s. S. 181, L. 5—9.*

---

3. mothtrega *Cd.* — 5. grim *Cd.* — 6. buþu *Cd.* — 7. ok trú ekki *Fas.*] ok eckí *Cd.*, *men over disse Ord er der en Streg. Jfr. Sigrdr. Str. 35, L. 2.* — 9. Sé *Cd.*, *ikke* Sjá. — 16. *Cap. 22. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: fra yfir lítvm Sighvrdar. ω 17. svá *skrevet i Cd.* S, *men gjennem* S *gaar en Streg.* — markaðr] margfaldr ok *Cd.*; *jvfr. Þiðr. s. S. 181:* Sigvrðr sveinn hævir markað sinn skiold a þann veg. — laughaðr í raudu g. *Cd.*; lagðr r. g. *i Þiðr. s. er det ældre Udtryk.* — 18. dœckbrunn *Þiðr. s.* — 19. vęg *Cd.* — hans hialmhœttr oc hans merki oc hans sœðull *Þiðr. s.*

hann er sénn, má vita, hverr þar ferr, af öllum þeim, er frétt hafa, at hann drap þann mikla dreka, er Væringjar kalla Fáfni; ok fyrir því eru vápn hans öll gulli búin ok brún at lit, at hann er langt umframm aðra menn at kurteisi ok allri hœfersku ok náliga at öllum hlutum; ok þá er taldir eru allir inir stœrstu kappar ok hinir ágæztu höfðingjar, þá mun hann jafnan fremstr taldr, ok hans nafn gengr í öllum tungum fyrir norðan Grikklands haf, ok svá man vera, meðan veröldin stendr. Hár hans var brúnt at lit ok fagrt at líta, ok fór í stórlokka; skeggit var þykt ok skamt ok með sama lit; hánefjaðr var hann ok hafði breitt andlit ok stórbeinótt; augu hans váru svá snör, at fár einn þorði at líta undir hans brún; herðar hans váru svá miklar, sem tveir menn væri á at sjá. Hans líkami var skapaðr allr við sik á hæð ok digrleik ok þann veg, sem bezt má sama; ok er þat mark um hans hæð, at þá er hann gyrði sik sverðinu Gram, en þat var sjau spanna hátt, ok er hann óð rúgakrinn fullvaxinn,

---

*L. 1—9. Jfr. Þiðr. s. S. 181, L. 9—16. — L. 9—18. Jfr. Þiðr. s. S. 180, L. 14—17. 19—22.*

---

1. af öllum þeim *synes at staa uden ret Sammenhæng i Sætningen* (*hvis der istedenfor* vita *stod et passivt Verbum, var Udtrykket i sin Orden*). *Bedre i Þiðr. s.:* þa ma vita hverr þar riðr. oc sva er hann frægr. er hann drap *o. s. v.* — 2. Væringjar, *saa rettet efter Þiðr. s. for* Væringar, *som Cd. har.* — 6. st$^{9}$stu *Cd.*, *d. e.* sterstu; stœrstu *Cdd. A. M. 177 og 178 af Þiðr. s.;* sterkustu *Skindbogen af Þiðr. s.* — 8. öllum] allvm *Cd.* — gekl'dz *Cd.* — 10. fagr *med rød Streg under* r *Cd.* — at líta ok fór í stórlokka (stor locka" *Cd.*); *bedre i Þiðr. s.* ok liðaz i locka stora. — 14. tueír m̄ *Cd.*; *Skindbogen af Þiðr. s. har:* sua miklar a at sea. at sua er sem .iii. menn se a þyct; *Cod. A. M. 178 fol.:* suo þykkar sem þrennar se a at sia. — 16. ok *foran* þann veg *mgler i Þiðr. s.* — 17. gyrðe *Cd.*, *ikke* girði.

þá tók niðr döggskórinn á sverðinu akrinn uppstandanda; ok hans afl er meira en vöxtr. Vel kann hann sverði at beita ok spjóti at skjóta ok skapti at verpa ok skildi at halda, boga at spenna eða hesti at ríða, ok margskonar kurteisi nam hann í œsku. Hann var vitr maðr, svá at hann vissi fyrir úorðna hluti; hann skildi fuglsrödd; ok af slíkum hlutum kómu honum fáir hlutir á úvart. Hann var langtalaðr ok málsnjallr, svá at ekki tók hann þat erendi at mæla, at hann mundi fyrr hætta, en svá sýnist öllum, sem enga leið muni eiga at vera nema svá, sem hann segir; ok þat er hans skemtan, at veita lið sínum mönnum ok reyna sjálfan sik í stórræðum ok taka fé af sínum úvinum ok gefa sínum vinum. Eigi skorti hann hug, ok aldri varð hann hræddr.

XXIII. Sigurðr ríðr nú þar til, er hann kemr at einum miklum bœ; þar réð fyrir einn mikill höfðingi, sá er Heimir hét; hann átti systur Brynhildar, er Bekkhildr hét, þvíat hon hafði heima verit ok numit hannyrði, en Brynhildr fór með hjálm ok brynju ok gékk á vígum, var hon því kölluð Brynhildr. Heimir ok Bekkhildr áttu einn son, er Alsviðr hét, manna kurteisastr. Þar léku menn

---

*L. 1–14. Jfr. Þiðr. s. S. 180, L. 24—S. 181, L. 5.*

---

1. tecr niðr dœggskorinn a acrinn uppstandanda *Þiðr. s.* — 4. hesti *Þiðr. s.*] hest *Cd.* — 5. *Bedre* er hann nam *Þiðr. s.* — 6–7. *Þiðr. s. bedre* þar af *for* af slíkum hlutum. — 9. *Cod. AM. 178 af Þiðr. s. har* letta *for* hætta (*Skindbogen* at hann skiliz fyrr við). — 10. *Þiðr. s.* mægi *for* muni eiga at. — 11. *Þiðr. s.* vinum *for* mönnum. — 12. storęðvm *Cd.*; *Þiðr. s.* storvirkium. — 15. *Cap. 23. Rød Cap.-overskr. i Cd.:* Sigurdr kom til heimís. — 17. er *Fas.*] *mgler i Cd.* — 18. hannyrði] hanvrde *Cd.* — 19. á vígum *burde kanské hede* at vígum, *som hos Bj.*

úti; ok er þeir sjá reið mannsins at bœnum, hætta þeir leiknum ok undrast manninn, þvíat þeir höfðu engan slíkan sét; géngu í mót honum ok fögnuðu honum vel. Alsviðr býðr honum með sér at vera ok af sér at þiggja slíkt, er hann vill; hann þiggr þat; honum er ok skipat vegliga at þjóna; fjórir menn hófu gullit af hestinum, enn fimti tók við honum. Þar mátti sjá marga góða gripi ok fáséna; var þat at skemtan haft at sjá brynjur ok hjálma ok stóra hringa ok undarliga mikil gullstaup ok allskonar hervápn. Sigurðr dvelst þar lengi í mikilli sœmd; spyrst nú þetta frægðarverk um öll lönd, er hann hafði drepit þann enn ógurliga dreka. Þeir undu sér nú vel, ok var hvárr öðrum hollr. Þat höfðu þeir sér at skemtan at búa vápn sín ok skepta örvar sínar ok beita haukum sínum.

XXIV. Þá var heim komin til Heimis Brynhildr, fóstra hans; hon sat í einni skemmu við meyjar sínar; hon kunni meira hagleik en aðrar konur; hon lagði sinn borða með gulli ok saumaði á þau stórmerki, er Sigurðr hafði gert: dráp ormsins ok upptöku fjárins ok dauða Regins. Ok einn dag er frá því sagt, at Sigurðr reið á skóg við hundum sínum ok haukum ok miklu fjölmenni; ok er hann kom heim, fló hans haukr á hávan turn ok settist við einn glugg. Sigurðr fór eptir haukinum; þá sér hann eina fagra konu ok kennir, at þar er Brynhildr; honum þikkir um vert alt saman fegrð hennar ok þat, er hon gerir; kemr í höllina ok vil enga skemtan við menn eiga. Þá

---

3. seð *Cd. her som oftere.* — 9. híngha *med rød Streg under Cd.* — allz skonar *Cd.* — 10. spyrt *med rød Streg under Cd.* — 12. v$^{2}$gliga *Cd., dog er første Bogstav kludret og utydelig og mulig af den gamle Skriver selv rettet til* o. — 15. *Cap. 24. Rød Cap.-overskr. i Cd.:* v$^{i}$dr tal Sigvrdar ok brynhilldar. — 19. fiarRins *Cd.* — 22. hauk *med rød Streg under Cd.*

mælti Alsviðr: „Hví eru þér svá fálátir? þessi skipan þín harmar oss ok þína vini; eða hví máttu eigi gleði halda? haukar þínir hnípa ok svá hestrinn Grani, ok þessa fám vér seint bót.“ Sigurðr svarar: „Góðr vinr! heyr, hvat ek hugsa! minn haukr fló á einn turn, ok er ek tók hann, sá ek eina fagra konu; hon sat við einn gulligan borða ok las þar á mín liðin ok framkomin verk.“ Alsviðr svarar: „Þú hefir sét Brynhildi Buðladóttur, er mestr skörungr er.“ Sigurðr svarar: „Þat mun satt vera; eða hversu [löngu] kom hon hér?“ Alsviðr svarar: „Þess var skamt í milli ok þér kvámuð.“ Sigurðr segir: „Þat vissu vér fyrir fám dögum; sú kona hefir oss bezt sýnzt í veröldu.“ Alsviðr mælti: „Gef ekki gaum at einni konu, þvílíkr maðr; er þat ilt at sýta, er maðr fær eigi.“ „Hana skal ek hitta“, sagði Sigurðr, „ok gefa henni gull ok ná hennar gamni ok jafnaðarþokka.“ Alsviðr svarar: „Engi fannst sá enn um aldr, er hon léði rúms hjá sér eða gæfi öl at drekka; hon vill sik í herskap hafa ok allskonar frægð at fremja.“ Sigurðr mælti: „Vér vitum eigi, hvárt hon svarar oss eða eigi, eða lér oss sess hjá sér.“ Ok annan dag eptir gékk Sigurðr til skemmunnar; en Alsviðr stóð hjá skemmuni úti ok skepti örvar sínar. Sigurðr mælti: „Sit heil frú! eða hversu megi þér?“ Hon svarar: „Vel megu vér, frændr lifa ok vinir, en háttung er í, hverja giptu menn bera til síns endadags.“ Hann sezt hjá henni. Síðan ganga þar inn fjórar konur með stórum borðkerum af gulli ok með enu bezta víni ok standa fyrir þeim; þá

---

3. fa$^{m}$ *Cd. d. e.* fáum. — 10. löngu *mgler i Cd.* — 11. kuomut *Cd.* — 16. gamni *skrevet* gaf̄e (*d. e.* gafne) *i Cd.* — 17. lęðe *Cd.* — 18. allz skonar *Cd.* — 20. ler *Cd.* — 27. *Foran* standa *staar i Cd.* | (*en vertical Streg*) *og i Margen ligeledes* | , *men disse Streger er, saa vidt jeg kan sé, ikke med samme Blæk som den øvrige Skrift.*

mælti Brynhildr: „Þetta sæti man fám veitt vera, nema faðir minn komi.“ Hann svarar: „Nú er veitt þeim, er oss líkar.“ Herbergit var tjaldat af inum dýrstum tjöldum, ok þakit klæðum alt gólfit. Sigurðr mælti: „Nú er þat framm komit, er þér hétuð oss.“ Hon svarar: „Þér skuluð hér velkomnir!“ Síðan reis hon upp, ok fjórar meyjar með henni, ok gékk fyrir hann með gullker ok bað hann drekka. Hann réttir í mót höndina kerinu ok tók hönd hennar með ok setti hana hjá sér; hann tók um háls henni ok kysti hana ok mælti: „Engi kona hefir þér fegri fœzt.“ Brynhildr mælti: „Vitrligra ráð er þat, at leggja eigi trúnað sinn á konu vald, þvíat þær rjúfa jafnan sín heit.“ Hann mælti: „Sá kœmi beztr dagr yfir oss, at vér mættim njótast.“ Brynhildr svarar: „Eigi er þat skipat, at vit búim saman, ek em skjaldmær, ok á ek með herkonungum hjálm, ok þeim man ek at liði verða, ok ekki er mér leitt at berjast.“ Sigurðr svarar: „Þá frjóumst vér mest, ef vér búum saman, ok meira er at þola þann harm, er hér liggr á, en hvöss vápn.“ Brynhildr svarar: „Ek man kanna lið hermanna, en þú munt eiga Guðrúnu Gjúkadóttur.“ Sigurðr svarar: „Ekki tælir mik eins konungs dóttir, ok ekki lær mér tveggja huga um þetta, ok þess sver ek við guðin, at ek skal þik eiga, eða enga konu ella.“ Hon mælti slíkt. Sigurðr þakkar henni þessi ummæli ok gaf henni gullhring, ok svörðu nú eiða af nýju, ok gengr hann í brott til sinna manna ok er þar um hríð með miklum blóma.

XXV. Gjúki hét konungr, hann hafði ríki fyrir

---

14. skapad *Bj.* — 17. frjóumst] fríǫ́vmzt *Cd.* — 19. hvöss] hvass *Cd.* — 21. eins konungs dóttir *synes forvansket.* eins úríks konungs dóttir? *eller* né eins k. d.? ein *for* eins *Bj.* — 25. svörðu] sv^r^ðv *Cd.*, *d. e.* svarðu. — nyív *Cd.*, *ikke* nýu. — 28. *Cap. 25. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: *fra* Giuka konghe ok *sonom.*

sunnan Rín. Hann átti þrjá sonu, er svá hétu: Gunnarr, Högni, Gutthormr; Guðrún hét dóttir hans, hon var frægst mær; báru þau börn mjök af öðrum konungabörnum um alla atgervi, bæði um vænleik ok vöxt. Þeir váru jafnan í hernaði ok unnu mörg ágætisverk. Gjúki átti Grímhildi ena fjölkunngu. Buðli hét konungr, hann var ríkari en Gjúki, ok þó báðir ríkir. Atli hét bróðir Brynhildar. Atli var grimmr maðr, mikill ok svartr ok þó tiguligr, ok inn mesti hermaðr. Grímhildr var grimmhuguð kona. Ráð Gjúkunga stóð með miklum blóma, ok mest fyrir sakir barna hans, er mjök váru um framm flesta. Eitt sinn segir Guðrún meyjum sínum, at hon má eigi glöð vera. Ein kona spyrr hana, hvat henni sé at úgleði. Hon svarar: „Eigi féngum vér tíma í draumum, er því harmr í hjarta mér; ráð drauminn, þar er þú fréttir eptir.“ Hon svarar: „Seg mér ok lát þik eigi hryggja, þvíat jafnan dreymir fyrir veðrum.“ Guðrún svarar: „Þetta er ekki veðr; þat dreymdi mik, at ek sá einn fagran hauk mér á hendi; fjaðrar hans váru með gulligum lit.“ Konan svarar: „Margir hafa spurt af yðrum vænleik, vizku ok kurteisi; nökkurs konungs son mun biðja þín.“ Guðrún svarar: „Engi hlutr þótti mér haukinum betri, ok alt mitt fé vilda ek heldr láta en hann.“ Konan svarar: „Sá, er þú fær, man vera vel mentr, ok muntu unna honum mikit.“ Guðrún svarar: „Þat angrar mik, at ek veit eigi, hverr hann er, ok skulum vér hitta Brynhildi; hon mun vita.“ Þær bjuggust með gulli ok mikilli fegrð ok fóru með meyjum sínum, unz þær kómu at höll Brynhildar; sú höll var búin með gulli ok stóð á einu bergi. Ok er sén er

---

2. Gutthormr, *saa Cd., ikke* Guttormr. — fegrst? — 15. *Jeg har læst i Cd.:* hiarta mer Rað draumínn, *dog er* mer *og* R *ikke tydeligt, derimod er* að *nogenlunde sikkert;* hjarta mér (of) drauminn *Fas.* — 24. velmentr *Cd.* — 28. meyvm *Cd.* — unzt *Cd.*

ferð þeira, þá er Brynhildi sagt, at margar konur óku at borginni með gyltum vögnum. „Þar man vera Guðrún Gjúkadóttir“, [segir hon]; „mik dreymdi um hana í nótt, ok göngum út í mót henni! ekki sœkja oss fríðari konur heim.“ Þær géngu út í móti þeim ok fögnuðu vel; þær géngu inn í þá ina fögru höll; salrinn var skrifaðr innan ok mjök silfri búinn; klæði váru breidd undir fœtr þeim, ok þjónuðu allir þeim; þær höfðu margskonar leika. Guðrún var fáorð. Brynhildr mælti: „Hví megi þér eigi gleði bella; ger eigi þat! skemtum oss allar saman, ok rœðum um ríka konunga ok þeira stórvirki!“ „Gerum þat!“ segir Guðrún; „eða hverja veiztu fremsta konunga verit hafa?“ Brynhildr svarar: „Sonu [Hámundar] Haka ok Hagbarð; þeir unnu mörg frægðarverk í hernaði.“ Guðrún svarar: „Miklir váru þeir ok ágætir, en þó nam Sigarr systur þeira, en hefir aðra inni brenda, ok eru þeir seinir at hefna; eða hví nefndir þú eigi brœðr mína, er nú þikkja fremstir menn?“ Brynhildr segir: „Þat er í góðum efnum, en eigi eru þeir enn mjök reyndir, ok veit ek einn mjök af þeim bera; en þat er Sigurðr, son Sigmundar konungs; hann var þá barn, er hann drap sonu Hundings konungs ok hefndi föður síns ok Eylima, móðurföður síns.“ Guðrún mælti: „Hvat var

---

2. vögnum] vagnum *med rød Streg under i Cd.* — 3. segir hon *Fas.*] *mgler i Cd.* — 6. skrifaðr *Fas.*] skafaðar *Cd.*, *med rød Streg under* sk. — 7. vndr *Cd.* — 8. marghs skonar *Cd.* — 9. h *Cd.*, *d. e.* hví, *ikke* hér. — 13. Sonu *skrevet* ss. *i Cd.* — Hámundar] *mgler i Cd. Jfr. Svend Grundtvig, Danm. gl. Folkev. I, 259, Anm. 1. Cod. 1006 fol. i kgl. Bibl. Kjøb. gl. kgl. Sml., der er Afskrift af Cd., tilføier i Randen* Hermundar. — 15—16. *Jeg har tænkt mig Muligheden af, at* aðra inni brenda *kunde være forvansket f. Eks. af* föður inni brendan; *men dette bliver en løs Gjetning, ti den Sagnform, hvortil her hentydes, kjendes ikke andensteds fra. Det er ligesaa muligt, at* aðra *i det til Grund liggende Kvæde har dannet Stavrim med* inni.

til merkja um þat? segir þú hann borinn, þá er faðir hans féll?“ Brynhildr svarar: „Móðir hans gékk í valinn ok fann Sigmund konung sáran ok bauð at binda sár hans, en hann kvezt of gamall síðan at berjast, en bað hana við þat huggast, at hon mundi œztan son ala, ok var þar spá spaks geta; ok eptir andlát Sigmundar konungs fór hon með Álfi konungi, ok var Sigurðr þar upp fœddr í mikilli virðingu, ok vann hann mörg afreksverk á hverjum degi, ok er hann ágæztr maðr í veröldu.“ Guðrún mælti: „Af ást hefir þú fréttum til hans haldit; en af því kom ek hér, at segja þér drauma mína, er mér féngu mikillar áhyggju.“ Brynhildr svarar: „Lát þik eigi slíkt angra! ver með frændum þínum, er allir vilja þik gleðja.“ „Þat dreymdi mik“, sagði Guðrún, „at vér géngum frá skemmu margar saman ok sám einn mikinn hjört; hann bar langt af öðrum dýrum, hár hans var af gulli; vér vildum allar taka dýrit, en ek ein náða; dýrit þótti mér öllum hlutum betra; síðan skauztu dýrit fyrir knjám mér, var mér þat svá mikill harmr, at ek mátta trautt bera; síðan gaftu mér einn úlfhvelp, sá dreifði mik blóði brœðra minna.“ Brynhildr svarar: „Ek mun ráða, sem eptir mun ganga: til ykkar mun koma Sigurðr, sá er ek kaus mér til manns; Grímhildr gefr honum meinblandinn mjöð, er öllum oss kemr í mikit stríð; hann mantu eiga ok hann skjótt missa; þú munt eiga Atla konung; missa muntu brœðra þinna, ok þá mantu Atla vega.“ Guðrún svarar: „Ofrharmr er oss þat, at vita slíkt“; ok fara þær nú í brott ok heim til Gjúka konungs.

---

1. borinn, *skulde kanské hede* úborinn. — 5. ęstan *Cd.*, *ligesaa skriver Cd. S. 118, L. 25* veislur; *paa* œstr, *yngst, tør man her ikke tænke.* — 13. Þat *med meget stor* Þ *i Cd., som her begynder nyt Capitel, hvis Overskrift (med rødt) er:* draumr gudrun*ar* Radinn af brynh*ildi*. — 27. fara] $f^{r}$ *Cd., d. e.* far.

XXVI. Sigurðr riðr nú í brott með þat mikla gull; skiljast þeir nú vinir; hann riðr Grana með öllum sínum herbúnaði ok farmi. Hann riðr þar til, er hann kom at höll Gjúka konungs; riðr nú í borgina, ok þat sér einn af konungs mönnum ok mælti: „Þat hygg ek, at hér fari einn af goðunum; þessi maðr er allr við gull búinn; hestr hans er miklu meiri en aðrir hestar, ok afburðarvænn vápnabúnaðr, hann er langt um aðra menn framm, en sjálfr berr hann þó mest af öðrum mönnum.“ Konungrinn gengr út með hirð sína ok kvaddi manninn ok spyrr: „Hverr ertu, er riðr í borgina, er engi þorði, nema at leyfi sona minna?“ Hann svarar: „Ek heiti Sigurðr, ok em ek son Sigmundar konungs.“ Gjúki konungr mælti: „Vel skaltu hér kominn með oss ok þigg hér slíkt, sem þú vilt!“ Ok hann gengr inn í höllina, ok váru allir lágir hjá honum, ok allir þjónuðu honum, ok var hann þar í miklu yfirlæti. Þeir ríða allir saman Sigurðr ok Gunnarr ok Högni, ok þó er Sigurðr fyrir þeim um alla atgervi, ok eru þó allir miklir menn fyrir sér. Þat finnr Grímhildr, hve mikit Sigurðr ann Brynhildi, ok hve opt hann getr hennar; hugsar fyrir sér, at þat væri meiri gipta, at hann staðfestist þar ok ætti dóttur Gjúka konungs, ok sá, at engi mátti við hann jafnast, sá ok, hvert traust at honum var, ok hafði ofr fjár, miklu meira, en menn vissi dœmi til. Konungr var við hann sem við sonu sína, en þeir virðu hann framar en sik. Eitt kveld, er þeir sátu við drykk, ríss dróttning upp ok gékk fyrir Sigurð ok kvaddi hann ok mælti: „Fögnuðr er oss á þinni hérvist, ok alt

---

1. *Cap. 26. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: Sigvrdi *var* blandat vmínís aul. — 4. hąll *Cd.* (a *med Krøl under*). — 20. opt] opp *Cd.* — 27. rís *Cd.* -- 28. a (*foran* þínne) *Cd.; at Fas.*, af *Bj.* á *kan vel forsvares ved Udtryk som* manni þykkir úhœgindi á einhverju.

gott viljum vér til yðar leggja; tak hér við horni ok drekk!“ Hann tók við ok drakk af. Hon mælti: „Þinn faðir skal vera Gjúki konungr, en ek móðir, brœðr þínir Gunnarr ok Högni ok allir, er eiða vinnið, ok munu þá eigi yðrir jafningjar fást.“ Sigurðr tók því vel, ok við þann drykk mundi hann ekki til Brynhildar; hann dvaldist þar um hríð. Ok eitt sinn gékk Grímhildr fyrir Gjúka konung ok lagði hendr um háls honum ok mælti: „Hér er nú kominn enn mesti kappi, er finnast man í veröldu, væri at honum mikit traust: gipt honum dóttur þína með miklu fé ok slíku ríki, sem hann vill, ok mætti hann hér yndi nema!“ Konungr svarar: „Fátítt er þat, at bjóða framm dœtr sínar, en meiri vegr er at bjóða honum, en aðrir biði.“ Ok eitt kveld skenkir Guðrún. Sigurðr sér, at hon er væn kona ok at öllu en kurteisasta. Fimm misseri var Sigurðr þar, svá at þeir sátu með frægð ok vingan, ok rœðast konungar nú við. Gjúki konungr mælti: „Mart gott veitir þú os, Sigurðr! ok mjök hefir þú styrkt várt ríki.“ Gunnarr mælti: „Alt viljum vér til vinna, at þér dvelizt hér lengi, bæði ríki ok vára systur með boði, en eigi mundi annarr fá, þótt bæði.“ Sigurðr svarar: „Hafið þökk fyrir yðra sœmd! ok þetta skal þiggja.“ Þeir sverjast nú í brœðralag, sem þeir sé sambornir brœðr. Nú er ger ágætlig veizla, ok stóð marga daga; drekkr Sigurðr nú brúðlaup til Guðrúnar; mátti þar sjá margskonar gleði ok skemtan, ok var hvern dag veitt öðrum betr. Þeir fóru nú víða um lönd ok vinna mörg frægðarverk, drápu marga konungasonu, ok engir menn gerðu slík afrek sem þeir; fara nú heim með miklu herfangi. Sigurðr gaf Guðrúnu at eta af Fáfnis hjarta, ok síðan var hon miklu grimmari en áðr ok vitrari; þeira son hét Sigmundr. Ok eitt sinn gékk Grímhildr at Gunnari syni sínum ok mælti: „Yðart

4. munu] *Cd. synes at have* m̌, *d. e.* mun. — 30. fāfnis *Cd.*

ráð stendr með miklum blóma, fyrir utan einn hlut, er þér eruð kvánlausir; biðið Brynhildar! þat er göfgast ráð, ok mun Sigurðr ríða með yðr.“ Gunnarr svarar: „Víst er hon væn, ok eigi em ek þessa úfúss“, ok segir nú feðr sínum ok brœðrum ok Sigurði, ok eru allir fýsandi.

XXVII. Þeir búa nú ferð sína listuliga, ríða nú fjöll ok dali til Buðla konungs, bera upp bónorðit; hann tók því vel, ef hon vill eigi níta, ok segir hana svá stóra, at þann einn mann mun hon eiga, er hon vill. Þá ríða þeir í Hlymdali. Heimir fagnar þeim vel; segir Gunnarr nú erendin. Heimir kvað hennar kør vera, hvern hon skal eiga; segir þar sal hennar skamt frá ok kvazt þat hyggja, at þann einn mundi hon eiga vilja, er riði eld brennanda, er sleginn er um sal hennar. Þeir finna salinn ok eldinn ok sjá þar borg gulli bysta, ok brann eldr um utan. Gunnarr reið Gota, en Högni Hölkvi. Gunnarr keyrir hestinn at eldinum, en hann hopar. Sigurðr mælti: „Hví hopar þú, Gunnarr?“ Hann svarar: „Eigi vill hestrinn hlaupa þenna eld“, ok biðr Sigurðr ljá sér Grana; „heimilt er þat“, segir Sigurðr. Gunnarr ríðr nú at eldinum, ok vill Grani eigi ganga. Gunnarr má nú eigi ríða þenna eld; skipta nú litum, sem Grímhildr kendi þeim Sigurði ok Gunnari. Síðan ríðr Sigurðr ok hefir Gram í hendi ok bindr gullspora á fœtr sér. Grani hleypr framm at eldinum, er hann kendi sporans. Nú verðr gnýr mikill, er eldrinn tók at œsast, en jörð tók at skjálfa, loginn stóð við himin; þetta þorði engi at gera fyrr, ok var sem hann riði í myrkva; þá lægðist eldrinn, en hann gékk af hestinum inn í salinn. Svá er kveðit:

---

2. biðit *med rød Streg under i Cd.* — 6. *Cap. 27. Rød Cap.-overskr. i Cd.:* Sigurdr reið vafurloghan brynhildar budladottur. — 8. níta, *saa Cd.* (*ikke* inta). — stóra *behøver neppe at forandres til* stórráða. — 11. kior *Cd.* — 12. q (z over q) *Cd.* — 16. keyʀir *Cd.*, *ikke* keirir. — 28. lagdizt *Cd.*

22. Eldr nam at œsask,
en jörð at skjálfa,
ok hár logi
við himni gnæva;
fár treystisk þar
fylkis rekka
eld at ríða
né yfir stíga.

23. Sigurðr Grana
sverði keyrði,
eldr slöknaði
fyr öðlingi,
logi allr lægðisk
fyr lofgjörnum,
bliku reiði
er Reginn átti.

Ok er Sigurðr kom inn um logann, fann hann þar eitt fagrt herbergi, ok þar sat í Brynhildr. Hon spyrr, hverr sá maðr er. En hann nefndist Gunnarr Gjúkason: „ertu ok ætluð mín kona með jáyrði feðr þíns, ef ek riða þinn vafrloga, ok fóstra þíns með yðru atkvæði.“ „Eigi veit ek gerla, hversu ek skal þessu svara“, [segir hon]. Sigurðr stóð réttr á gólfinu ok studdist á sverðshjöltin ok mælti til Brynhildar: „Þér í mót skal ek gjalda mikinn mund í gulli ok góðum gripum.“ Hon svarar af áhyggju af sínu sæti, sem álpt af báru, ok hefir sverð í hendi ok hjálm á höfði ok var í brynju: „Gunnarr!“ segir hon, „rœð ekki slíkt við mik, nema þú sér hverjum manni fremri, ok þá

1. nam *Fas.*] man *Cd.* — 4. himne *Cd.;* himin *Bj.* — gnęfa *Cd.* — 10. keyrde, *saa Cd.* — 15. reiði] reið *Cd.* — 20. feðr] fedurs *Cd.* — riða *i Cd. skrevet* Riðaa; ríð á *Fas.* — 22. segir hon *Fas.*] *mgler i Cd.* — 24. *Bj. har* Þar *for* Þér. — 28. sér] sert *Cd.*

skaltu drepa, er mín hafa beðit, ef þú hefir traust til; ek var í orrostu með Garðakonungi, ok váru vápn vár lituð í mannablóði, ok þess girnumst vér enn." Hann svarar: „Mörg stórvirki hafi þér unnit, en minnizt nú á heit yðar, ef þessi eldr væri riðinn, at þér mundið með þeim manni ganga, er þetta gerði." Hon finnr nú hér sönn svör ok merki þessa máls, stendr upp ok fagnar honum vel. Þar dvelst hann þrjár nætr, ok búa eina rekkju. Hann tekr sverðit Gram ok leggr í meðal þeira bert. Hon spyrr, hví þat sætti. Hann kvað sér þat skipat, at svá gerði hann brúðlaup til konu sinnar eða fengi ella bana. Hann tók þá af henni hringinn Andvaranaut, er hann gaf henni, en fékk henni nú annan hring af Fáfnis arfi. Eptir þetta ríðr hann brott í þann sama eld til sinna félaga, ok skipta þeir aptr litum, ok ríða síðan í Hlymdali ok segja, hve farit hafði. Þann sama dag fór Brynhildr heim til fóstra síns ok segir honum af trúnaði, at til hennar kom einn konungr, „ok reið minn vafrloga ok kvazt kominn til ráða við mik ok nefndist Gunnarr; en ek sagða, at þat mundi Sigurðr einn gera, er ek vann eiða á fjallinu, ok er hann minn frumverr." Heimir kvað nú svá búit vera mundu. Brynhildr mælti: „Dóttur okkar Sigurðar, Áslaugu, skal hér upp fæða með þér." Fara konungar nú heim, en Brynhildr fór til feðr síns. Grímhildr fagnar þeim vel ok þakkar Sigurði sína fylgð; er þar búizt við veizlu, kom þar mikill

---

6. svör *skrevet* saur *i Cd.* — 8. rekkju *skrevet* reykkiu *i Cd.* — 13. fafnis *Cd.* — 15. lymdale *Cd.* — 21. frvmverr *Cd. sikkert.* — 25. *Efter S. 87, L. 20–21 kunde man formode, at noget var faldet ud mellem* við veizlu *og* kom þar (*omtrent*: eptir hinum beztum föngum; ok þá er þessi veizla var albúin); *dog nødvendigt er det ikke.*

mannfjöldi: þar kom Buðli konungr með dóttur sína ok Atli son hans, ok hefir þessi veizla staðit marga daga; ok er lokit er þessi veizlu, minnir Sigurð allra eiða við Brynhildi, ok lætr þó vera kyrt. Brynhildr ok Gunnarr sátu við skemtan ok drukku gott vín.

XXVIII. Þat er einn dag, er þær géngu til árinnar saman at þvá sér, þá óð Brynhildr lengra út á ána. Guðrún spyrr, hví þat gegndi. Brynhildr segir: „Hví skal ek um þetta jafnast við þik, heldr en um annat? ek hugða, at minn faðir væri ríkari en þinn, ok minn maðr unnit mörg snildarverk ok riði eld brennanda, en þinn bóndi var þræll Hjálpreks konungs.“ Guðrún svarar með reiði: „Þá værir þú vitrari, ef þú þegðir, en lastaðir mann minn; er þat allra manna mál, at engi hafi slíkr komit í veröldina fyrir hversvetna sakir, ok eigi samir þér vel at lasta hann, þvíat hann er þinn frumverr, ok drap hann Fáfni ok reið vafrlogann, er þú hugðir Gunnar konung, ok hann lá hjá þér ok tók af hendi þér hringinn Andvaranaut, ok máttu nú hér hann kenna.“ Brynhildr sér nú þenna hring ok kennir; þá fölnar hon, sem hon dauð væri. Brynhildr fór heim ok mælti ekki orð um kveldit. Ok er Sigurðr kom í rekkju, spyrr Guðrún: „Hví er Brynhildr svá úkát?“ Sigurðr svarar: „Eigi veit ek gløgt, en grunar mik, at vér munum vita brátt nökkuru gerr.“ Guðrún mælti: „Hví unir hon eigi auð ok sælu ok allra manna lofi, ok fengit þann mann, sem hon vildi?“ Sigurðr mælti: „Hvar var hon þá, er hon sagði þat, at hon þœttist enn œzta

---

6. *Cap. 28. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: Deilld drotthningan*na* b*rynhilldar ok* Gudrunar (*det sidste Navn er, saavidt jeg kan sé, i Cd. betegnet ved* G). — 7. saman *Fas.; Ordet sér i Cd. ud som* Sa$\overset{r}{\text{m}}$; *første Bogstav er ikke tydelig; Bogstaven over* m *ligner mér* r *end* n. — 16. faf̄ne *Cd.*

eiga eða þann, er hon vildi helzt eiga?“ Guðrún svarar: „Ek skal eptir spyrja á morgin, hvern hon vill helzt eiga.“ Sigurðr svarar: „Þess let ek þik, ok iðrast muntu, ef þú gerir þat.“ Ok um morgininn sátu þær í skemmu sinni, ok var Brynhildr hljóð. Þá mælti Guðrún: „Ver kát, Brynhildr! angrar þik okkart viðrtal? eða hvat stendr þér fyrir gamni?“ Brynhildr svarar: „Ilt eitt gengr þér til þessa, ok hefir þú grimt hjarta.“ „Virð eigi svá“, segir Guðrún, „ok seg heldr.“ Brynhildr svarar: „Spyr þess eina, at bezt sé attu vitir, þat samir ríkum konum; ok er gott góðu at una, er yðr gengr alt at óskum.“ Guðrún svarar: „Snemt er því enn at hœla, ok er þetta nökkur sú forspá; hvat reki þér at oss? vér gerðum yðr ekki til angrs.“ Brynhildr svarar: „Þess skaltu gjalda, er þú átt Sigurð, ok ek ann þér eigi hans at njóta né gullsins mikla.“ Guðrún svarar: „Eigi vissa ek yður ummæli, ok vel mætti faðir minn sjá ráð fyrir mér, þóttu værir ekki at hitt.“ Brynhildr svarar: „Ekki höfum vér launmæli haft, ok þó höfum vit eiða svarit, ok vissu þér þat, at þér véltuð mik, ok þess skal hefna.“ Guðrún svarar: „Þú er betr gefin, en makligt er, ok þinn ofsi man illa sjatna, ok þess munu margir gjalda.“ „Una mundu vér“, segir Brynhildr, „ef eigi ættir þú göfgara mann.“ Guðrún svarar: „Áttu svá göfgan mann, at úvíst er, hverr meiri konungr er, ok gnótt fjár ok ríkis.“ Brynhildr svarar: „Sigurðr vá at Fáfni, ok er þat meira vert en alt ríki Gunnars konungs, svá sem kveðit er:

24. Sigurðr vá at ormi,
en þat síðan man
engum fyrnask,
meðan öld lifir;

---

3. iðrast] ydrazt *Cd.* — 12. nockur *Cd.* — 24. hverr *Cd.* *„om der gives nogen større Konge“; men kanské er her, som ellers,* hverr *forvansket af* hvárr *„hvem der er størst Konge, enten min Mand eller din“.*

en hlýri þinn
hvárki þorði
eld at ríða
né yfir stíga."

Guðrún svarar: „Grani rann eigi eldinn undir Gunnari konungi, en hann þorði at ríða, ok þarf honum eigi hugar at frýja." Brynhildr svarar: „Dyljumst eigi við, at ek hygg Grímhildi eigi vel." Guðrún svarar: „Ámæl henni eigi, þvíat hon er til þín, sem til dóttur sinnar." Brynhildr svarar: „Hon veldr öllum upphöfum þess böls, er oss bítr; hon bar Sigurði grimt öl, svá at eigi mundi hann mitt nafn." Guðrún svarar: „Mart rangt orð mælir þú, ok mikil lygi er slíkt." Brynhildr svarar: „Njóti þér svá Sigurðar, sem þér hafið mik eigi svikit, ok er yðart samveldi úmakligt, ok gangi yðr svá, sem ek hygg." Guðrún svarar: „Betr mun ek njóta, en þú mundir vilja, ok engi gat þess, at hann ætti ofgott við mik né eitt sinn." Brynhildr svarar: „Illa mælir þú ok, er af þér rennr, mantu iðrast, ok hendum eigi heiptyrði." Guðrún segir: „Þú kastaðir fyrri heiptarorðum á mik; lætr þú nú, sem þú munir yfir bœta, en þó býr grimt undir." „Leggjum niðr únýtt hjal", segir Brynhildr; „ek þagða lengi yfir mínum harmi, þeim er mér bjó í brjósti, en ek ann þínum bróður at eins, ok tökum annat tal." Guðrún segir: „Langt sér hugr þinn um framm." Ok þar af stóð mikill úfagnaðr, er þær géngu á ána, ok hon kendi hringinn, ok þar af varð þeira viðrœða.

XXIX. Eptir þetta tal legst Brynhildr í rekkju, ok kómu þessi tíðendi fyrir Gunnar konung, at Brynhildr er

---

7. Dyljumst] dylizt (*ikke* dylimst) *Cd.* — at *Fas.*] at et *Cd.* (*dog er e lidt utydelig*). — 10. vpp aufum *Cd.* — 27. *Cap. 29. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: harmr b*rynhildar* vox at eins.

sjúk; hann hittir hana ok spyrr, hvat henni sé; en hon svarar engu ok liggr, sem hon sé dauð. Ok er hann leitar eptir fast, þá svarar hon: „Hvat gerðir þú af hring þeim, er ek selda þér, er Buðli konungr gaf mér at efsta skilnaði, er þér Gjúkungar kómuð til hans ok hétuð at herja eða brenna, nema þér næðið mér; síðan leiddi hann mik á tal ok spyrr, hvern ek køra af þeim, sem komnir váru; en ek buðumst til at verja landit ok vera höfðingi yfir þriðjungi liðs; váru þá tveir kostir fyrir hendi, at ek munda þeim verða at giptast, sem hann vildi, eða vera án alls fjár ok hans vináttu, kvað þó sína vináttu mér mundu betr gegna en reiði; þá hugsaða ek með mér, hvárt ek skylda [hlýða] hans vilja eða drepa margan mann; ek þóttumst vanfœr til at þreyta við hann, ok þar kom, at ek hétumst þeim, er riði hestinum Grana með Fáfnis arfi ok riði minn vafrloga ok dræpi þá menn, er ek kvað á; nú treystist engi at ríða, nema Sigurðr einn; hann reið eldinn, þvíat hann skorti eigi hug til; hann drap orminn ok Regin ok fimm konunga, en eigi þú, Gunnarr! er þú fölnaðir sem nár, ok ertu engi konungr né kappi; ok þess strengda ek heit heima at feðr míns, at ek munda þeim einum unna, er ágæztr væri alinn, en þat er Sigurðr; nú erum vér eiðrofa, er vér eigum hann eigi, ok fyrir þetta skal ek ráðandi þíns dauða; ok eigum vér Grímhildi ilt at launa, henni finnst engi kona huglausari né verri.“ Gunnarr svarar, svá at fáir heyrðu: „Mörg flærðarorð hefir þú mælt, ok ertu illúðig kona, er þú ámælir þeiri konu, er mjök er um þik framm, ok eigi undi hon verr sínu, svá sem þú gerir,

---

5. Gjúkungar] Gjúki konungr *Cd. Jfr. Sig. kviða III, Str. 35, L. 3.* — hétuð *Fas.*] heitud *Cd.* — 7. kíora *Cd.* — 13. hlýða *Fas.*] *mgler i Cd.; man kunde ogsaa foreslaa andre Udfyldninger.* — 14. van fer *Cd.* — 15. fafnis *Cd.* — 16. *For* kvað *har Bj.* kvæde. — 25. huglausari] havglausarc *Cd.* — 28. undi] yndi *Cd.* — verr *skrevet* ver *i Cd.*

eða kvaldi dauða menn, ok engan myrði hon ok lifir við lof." Brynhildr svarar: „Ekki höfum vér launþing haft né údáðir gert, ok annat er várt eðli, ok fúsari værim vér at drepa yðr." Síðan vildi hon drepa Gunnar konung, en Högni setti hana í fjötra. Gunnarr mælti þá: „Eigi vil ek, at hon búi í fjötrum." Hon svarar: „Hirð eigi þat, þvíat aldri sér þú mik glaða síðan í þinni höll eða drekka né tefla né hugat mæla né gulli leggja góð klæði né yðr ráð gefa"; kvað hon sér þat mestan harm, at hon átti eigi Sigurð. Hon settist upp ok sló sinn borða svá, at sundr gékk, ok bað svá lúka skemmudyrum, at langa leið mætti heyra hennar harmtölur. Nú er harmr mikill, ok heyrir um allan bœinn. Guðrún spyrr skemmumeyjar sínar, hví þær sé svá úkátar eða hryggar: „eða hvat er yðr, eða hví fari þér sem vitlausir menn, eða hverr gyzki er yðr orðinn?" Þá svarar hirðkona ein, er Svafrlöð hét: „Þetta er útímadagr, vár höll er full af harmi." Þá mælti Guðrún til sinnar vinkonu: „Stattu upp! vér höfum lengi sofit, vek Brynhildi, göngum til borða ok verum kátar!" „Þat geri ek eigi", sagði hon, „at vekja hana, né við hana mæla, ok mörg dœgr drakk hon eigi mjöð né vín, ok hefir hon fengit goða reiði." Þá mælti Guðrún til Gunnars: „Gakk at hitta hana", segir hon, „ok seg oss illa kunna hennar meini." Gunnarr svarar: „Þat er mér bannat at hitta hana eða hennar fé at skipta." Þó ferr Gunnarr at hitta hana ok leitar marga vega málsenda við hana ok fær ekki af um svörin; gengr nú á brott ok hittir Högna ok biðr hann finna hana, en hann kvezt vera úfúss ok ferr þó ok fékk ekki af henni; ok er hittr Sigurðr ok beðinn at finna hana; hann svarar engu, ok er svá búit

---

11. *Bj. har* luka upp *for* lúka. — 15. gyzke *Cd.* — 16. svaf*ur*lauð *Cd.* — 19. sofit] sǫf (t above) *Cd.* — 27. svörin *Fas.*] suarīn̄ *Cd.*

um kveldit. Ok annan dag eptir, er hann kom af dýraveiði, hitti hann Guðrúnu ok mælti: „Þann veg hefir fyrir mik borit, sem þetta muni til mikils koma hrollr sjá, ok mun Brynhildr deyja.“ Guðrún svarar: „Herra minn! mikil kynsl fylgja henni; hon hefir nú sofit sjau dœgr, svá at engi þorði at vekja hana.“ Sigurðr svarar: „Eigi sefr hon, hon hefir stórræði með höndum við okkr.“ Þá mælti Guðrún með gráti: „Þat er mikill harmr at vita þinn bana; far heldr ok finn hana ok vit, ef sjatni hennar ofsi, gef henni gull ok mýk svá hennar reiði!“ Sigurðr gékk út ok fann opinn salinn; hann hugði hana sofa, ok brá af henni klæðum ok mælti: „Vaki þú Brynhildr! sól skínn um allan bœinn, ok er œrit sofit; hritt af þér harmi ok tak gleði.“ Hon mælti: „Hví sætir þín dirfð, er þú ferr mik at hitta; mér var engi verri í þessum svikum.“ Sigurðr spyrr: „Hví mælir þú eigi við menn, eða hvat angrar þik?“ Brynhildr svarar: „Þér skal ek segja mína reiði.“ Sigurðr mælti: „Heilluð ertu, ef þú ætlar grimman minn hug við þik, ok er sjá þinn maðr, er þú kaust!“ „Nei“, segir hon, „eigi reið Gunnarr eldinn til vár, ok eigi galt hann mér at mundi feldan val; ek undruðumst þann mann, er kom í minn sal, ok þóttumst ek kenna yður augu, ok fékk ek þó eigi víst skilit fyrir þeiri huldu, er á lá á minni hamingju.“ Sigurðr segir: „Ekki erum vér göfgari menn en synir Gjúka; þeir drápu Danakonung ok mikinn höfðingja bróður Buðla konungs.“ Brynhildr svarar: „Mart ilt eigum vér þeim upp at inna, ok minn oss ekki á harma vára; þú Sigurðr vátt orminn ok reitt eldinn ok of mína sök, ok váru þar eigi synir Gjúka konungs.“ Sigurðr svarar: „Ekki varð ek þinn maðr ok vartu mín

---

3. o *i* hrollr *er lidt utydelig i Cd.* — 5. kynzl *Cd.* — 14. þín *Bj.*] þinni *Cd.* — 15. engi] enǵ *Cd.* — 19. sjá *skrevet* $S^{\omega}$ *Cd.* (*dette betegner oftest* svá); sá *Fas.* — 29. þ*ar*, *saa Cd.*, *ikke* þat.

kona, ok galt við þér mund ágætr konungr.“ Brynhildr svarar: „Eigi sé ek svá Gunnar, at minn hugr hlæja við honum, ok grimm em ek við hann, þótt ek hylma yfir fyrir öðrum.“ „Þat er ógurligt“, segir Sigurðr, „at unna eigi slíkum konungi; eða hvat angrar þik mest? mér sýnist, sem hans ást sé þér gulli betri.“ Brynhildr svarar: „Þat er mér sárast minna harma, at ek fæ eigi því til leiðar komit, at bitrt sverð væri roðit í þínu blóði.“ Sigurðr svarar: „Kvíð eigi því! skamt mun at bíða, áðr bitrt sverð man standa í mínu hjarta, ok ekki muntu þér verra biðja, þvíat þú munt eigi eptir mik lifa, munu ok fáir várir lífsdagar héðan ífrá.“ Brynhildr svarar: „Eigi standa þín orð af litlu fári, síðan þér svikuð mik frá öllu *yndi, ok ekki hirði ek um lífit.“ Sigurðr svarar: „Lif þú ok unn Gunnari konungi ok mér, ok alt mitt fé vil ek til gefa, at þú deyir eigi.“ Brynhildr svarar: „Eigi veizt þú gørla mitt eðli, þú berr af öllum mönnum, en þér hefir engi kona orðit leiðari en ek.“ Sigurðr svarar: „Annat er sannara: ek unna þér betr en mér, þótt ek yrða fyrir þeim svikum, ok má því nú ekki bregða, þvíat ávalt, er ek gáða míns geðs, þá harmaði mik þat, er þú vart eigi mín kona; en af mér bar ek, sem ek mátta, þat er ek var í konungshöll, ok unda ek því þó, at vér várum öll saman; kann ok verða, at framm verði at koma þat, sem fyrir er spát, ok ekki skal því kvíða.“ Brynhildr svarar: „Ofseinat hefir þú at segja, at þik angrar minn harmr, en nú fám vér enga líkn.“ Sigurðr svarar: „Gjarna vilda ek, at vit stigim á einn beð bæði, ok værir þú mín kona.“

---

2. sé] sá *Cd.* — 4. og*ur*ligt *Cd.* — 12. standa] staða *Cd.* — 13—14 *Burde kanské hede*: ok ekki hirði ek um lífit, síðan þér svikuð mik frá öllu yndi. — 22. *Kanské med Bj.*: mátta, þá er ek var; *neppe*: mátta þat, er ek var. — 25. spáð *Cd.* — 26. s$^{c}$inat *Cd.* — hefir *Cd.*, *ikke* hefr.

Brynhildr svarar: „Ekki er slíkt at mæla, ok eigi mun ek eiga tvá konunga í einni höll, ok fyrr skal ek líf láta, en ek svíkja Gunnar konung". — ok minnist nú á þat, er þau fundust á fjallinu ok sórust eiða — „en nú er því öllu brugðit, ok vil ek eigi lifa." „Eigi munda ek þitt nafn", sagði Sigurðr, „ok eigi kenda ek þik fyrr, en þú vart gipt, ok er þetta enn mesti harmr." Þá mælti Brynhildr: „Ek vann eið at eiga þann mann, er riði minn vafrloga, en þann eið vilda ek halda eða deyja ella." „Heldr en þú deyir, vil ek þik eiga, en fyrirláta Guðrúnu", segir Sigurðr; en svá þrútnuðu hans síður, at í sundr géngu brynjuhringar. „Eigi vil ek þik", sagði Brynhildr, „ok øngan annarra." Sigurðr gékk í brott; svá segir i Sigurðar kviðu:

25. Út gékk Sigurðr
andspjalli frá
hollvinr lofða
ok hnipnaði,
svá at ganga nam
gunnarfúsum
sundr of síður
serkr járnofinn.

Ok er Sigurðr kom í höllina, spyrr Gunnarr, hvárt hann viti, hverr meintregi henni væri, eða hvárt hon hefir mál sitt. Sigurðr kvað hana mæla mega. Ok nú ferr Gunnarr at hitta hana í annat sinn ok spyrr, hví gegndi hennar mein, eða hvárt nökkur bót mundi til liggja. „Ek vil

16. anspialle *Cd.*; *jeg formoder* andspilli. — 18. hnipnaði] hnípaðc *Cd.* *Men* hnípa *har i Præterit.* hnípti; *dog oldeng.* hnipian hnipode. — 26. *Sidste Bogstav i* hví *er kludret*; *jeg kan ikke sé, om der først har været skrevet* hví, *hvilket blev ændret til* hve, *eller omvendt.* — 27. mein *Bj.*] meini *Cd.* — nock[2] *Cd.*

eigi lifa", sagði Brynhildr, „þvíat Sigurðr hefir mik vélt, ok eigi síðr þik, þá er þú lézt hann fara í mína sæng; nú vil ek eigi tvá menn eiga senn í einni höll, ok þetta skal vera bani Sigurðar eða þinn eða minn, þvíat hann hefir þat alt sagt Guðrúnu, en hon brigzlar mér."

XXX. Eptir þetta gékk Brynhildr út ok sezt undir skemmuvegg sinn ok hafði margar harmtölur, kvað sér alt leitt bæði land ok ríki, er hon átti eigi Sigurð; ok enn kom Gunnarr til hennar. Þá mælti Brynhildr: „Þú skalt láta bæði ríkit ok féit, lífit ok mik, ok skal ek fara heim til frænda minna ok sitja þar hrygg, nema þú drepir Sigurð ok son hans; al eigi úlfhvelpinn!" Gunnarr varð nú mjök hugsjúkr ok þóttist eigi vita, hvat helzt lá til, alls hann var í eiðum við Sigurð, ok lék ýmist í hug, þótti þat þó mest svívirðing, ef konan géngi frá honum. Gunnarr mælti: „Brynhildr er mér öllu betri, ok frægst er hon allra kvenna, ok fyrr skal ek líf láta en týna hennar ást"; ok kallar til sín Högna, bróður sinn, ok mælti: „Fyrir mik er komit vandmæli mikit"; segir, at hann vill drepa Sigurð, kvað hann hafa vélt sik í trygð: „ráðum vit þá gullinu ok öllu ríkinu." Högni segir: „Ekki samir okkr sœrin at rjúfa með úfriði, er oss ok mikit traust at honum, eru engir konungar oss jafnir, ef sjá inn hýnski konungr lifir, ok

---

*L. 6—15. Jfr. Sig. kviða III, Str. 6—14, L. 6. — L. 16—17. Jfr. Sig. III, Str. 15. — L. 18. Jfr. Sig. III, Str. 14, L. 7—10. — L. 19—23. Jfr. Sig. III, Str 16—18, L. 6.*

---

6. *Cap. 30. Rød Cap.-overskr. i Cd.:* Suik*inn* S*igurðr.* — 8. eigi *Fas.*] *mgler i Cd.* — 11. drepir *2 Gange i Cd.* — 13. hellzt, *saa Cd.* — 13—14. lá til, alls hann, *jvfr. Sig. kviða III, 13:* hann vissi þat | vilgi gorla, | hvat hanom vęri | vinna sǫmst, | . . . allz sik Volsvng | vissi firþan. — lá til alls; hann *Fas.* — 16. ǫllom betri *i Sig. III, Str. 15, L. 2.* — f$^{e}$gzt *Cd., d. e.* frægst; *jvfr. Sig. III, 15:* hon er bragr qvenna. fegrst *Fas.* — 21. sœrin] Sariñ *Cd.*

slíkan mág fám vér aldri, ok hygg at, hversu gott væri, ef vér ættim slíkan mág ok systursonu, ok sé ek, hversu þetta stenzt af, þat hefir Brynhildr vakit, ok hennar ráð koma oss í mikla svívirðing ok skaða.“ Gunnarr svarar: „Þetta skal framm fara, ok sé ek ráðit: eggjum til Gutthorm, bróður okkarn, hann er ungr ok fás vitandi ok fyrir utan alla eiða.“ Högni segir: „Þat ráð lízt mér illa sett, ok þótt framm komi, þá munu vér gjöld fyrir taka at svíkja slíkan mann.“ Gunnarr segir Sigurð deyja skulu, „eða man ek deyja ella.“ Hann biðr Brynhildi upp standa ok vera káta; hon stóð upp ok segir þó, at Gunnarr mun eigi koma fyrr í sama rekkju henni, en þetta er framm komit. Nú rœðast þeir við brœðr. Gunnarr segir, at þetta er gild banasök, at hafa tekit meydóm Brynhildar: „ok eggjum Gutthorm at gera þetta verk“; ok kalla hann til sín ok bjóða honum gull ok mikit ríki at vinna þetta til. Þeir tóku orm einn ok af vargsholdi ok létu sjóða ok gáfu honum at eta, sem skáldit kvað:

26. Sumir viðfisk tóku,
sumir vitnishræ skífðu,
sumir Gutthormi gáfu
gera hold
við mungáti

---

*L. 1—7. Jfr. Sig. III, Str. 18, L. 7—Str. 20. — Str. 26. Jfr. Brot af Sig. kviðu, Str. 4.*

---

5. Gutthorm, *saa Cd. her og ellers.* — 12. reyckiu *Cd.* — 16. at vinna *Bj.*] ok vinna *Cd.* — 19. Sum*i*r *Cd., ikke* Svipi*r*. — viðfisk] vidfiska *Cd.; jvfr.* orm einn *ovenfor og* orm *i Brot af Sig. Str. 4.* — 20. hrę̨skifðv *skrevet sammen i Cd.* — 21. gáfu *har jeg henført til denne Linje for Alliterationens Skyld. Dog er* gafv gera holld *rimelig blot en Forvanskning istedenfor* af gera deilldu, *som Brot af Sig. har.* — 23. mvngate, *saa Cd.*

ok marga hluti
aðra í tyfrum

. . . . . . .

Ok við þessa fœzlu varð hann svá æfr ok ágjarn, ok alt saman ok fortölur Grímhildar, at hann hét at gera þetta verk; þeir hétu honum ok mikilli sœmd í móti. Sigurðr vissi eigi ván þessarra vélræða, mátti hann ok eigi við sköpum vinna né sínu aldrlagi; Sigurðr vissi sik ok eigi véla verðan frá þeim. Gutthormr gékk inn at Sigurði eptir um morgininn, er hann hvíldi í rekkju sinni; ok er hann leit við honum, þorði Gutthormr eigi at veita honum tilræði ok hvarf út aptr, ok svá ferr í annat sinn; augu Sigurðar váru svá snör, at fár einn þorði gegn at sjá; ok it þriðja sinn gékk hann inn, ok var Sigurðr þá sofnaðr. Gutthormr brá sverði ok leggr á Sigurð, svá at blóðrefillinn stóð í dýnum undir honum. Sigurðr vaknar við sárit, en

---

1. hluti *skrevet* lute *i Cd.* — 2. *Efter* tyfrum *mangler en Linje, skjønt dette ikke er betegnet i Cd. eller af Udgg.* — ty$\overset{m}{f}$r, *hvilket Egilsson tyder som* taufrum, *forstaar jeg ikke.* — *Jeg tror, at de tre sidste Linjer er fuldstændig forvanskede og oprindelig har været givne i Udtryk, som var enstydige med dem i Brot af Sig. Str. 4; der finde vi Verset i flgd. Form, som i det hele er rettere:*

Svmir vlf (orm?) sviþo,
svmir orm (vlf?) sniþo,
svmir Gothormi
af gæra deildo;
aþr þeir mętti
meins vm lystir
a horscom hal
hendr vm leggia.
2

7. þessara *Fas.;* þa *Cd., hvilket kanské burde læses* þeira. — 14. it *skrevet* eð *i Cd.*

Gutthormr gékk út til dyranna; þá tók Sigurðr sverðit Gram ok kastar eptir honum, ok kom á bakit ok tók í sundr í miðju, féll annan veg fótahlutr, en annan höfuðit ok hendrnar aptr í skemmuna. Guðrún var sofnuð í faðmi Sigurðar, en vaknaði við óumrœðiligan harm, er hon flaut í hans blóði, ok svá kveinaði hon með grát ok harmtölur, at Sigurðr reis upp við hœgendit ok mælti: „Grát eigi!“ sagði hann; „þínir brœðr lifa þér til gamans, en þess til ungan son á ek, er kann eigi at varast fjándr sína, ok illa hafa þeir fyrir sínum hlut sét; ekki fá þeir slíkan mág at ríða í her með sér, né systurson, ef sjá næði at vaxa; ok nú er þat framm komit, er fyrir löngu var spát, ok vér höfum dulizt við, en engi má við sköpum vinna; en þessu veldr Brynhildr, er mér ann um hvern mann framm, ok þess má ek sverja, at Gunnari gerða ek aldri mein, ok þyrmda ek okrum eiðum, ok eigi var ek ofmikill vinr hans konu; ok ef ek hefða vitat þetta fyrir, ok stiga ek á mína fœtr með mín vápn, þá skyldu margir týna sínu lífi, áðr en ek félla, ok allir þeir brœðr drepnir, ok torveldra mundi þeim at drepa mik en enn mesta vísund eða villigölt.“ Konungr lét nú líf sitt. En Guðrún blæs mœðiliga öndunni; þat heyrir Brynhildr ok hló, er hon heyrði hennar andvarp. Þá mælti Gunnarr: „Eigi hlær þú af því, at

*L. 1—17. Jfr. Sig. III, Str. 22—28. — L. 17—19. Jfr. Þiðr. s. S. 301, L. 22—25. — L. 20. Jfr. Þiðr. s. S. 301, L. 27—30. — L. 21—23. Jfr. Sig. III, Str. 29—Str. 31, L. 3.*

3—4. *Skulde vel hede*: féll annan veg höfuðit ok hendrnar, en annan fótahlutr aptr í skemmuna; *jvfr. Sig. III, 22*: hendr ok hafvþ | hne a annan veg, | en fotalvtr | fell aptr i stað. - höfuðit *skrevet* haufu^t *i Cd.*; höfuð *Fas.* — 6. kveinaði] he^rínade *Cd.* (h *lidt kludret*). — 8. þess *burde kanské stryges.* — 10. slíkan] S^n lik^ra *Cd.* (*d. e.* ser likara); *jvfr. Sig. III, 27:* Riþra þeim siþan | . . . systorsonr | slicr at þingi. — sér ríkara *Fas.* — 21. blés? — 22. aundvnne *Cd.* — heyR^n *Cd.*; heyrði *Fas.*

þér sé glatt um hjartarœtr, eða hví hafnar þú þínum lit? ok mikit forað ertu, ok meiri ván, at þú sér feig, ok engi væri makligri til at sjá Atla konung drepinn fyrir augum þér, ok ættir þú þar yfir at standa; nú verðum vér at sitja yfir mági várum ok bróðurbana." Hon svarar: „Engi frýr, at eigi sé fullvegit, en Atli konungr hirðir ekki um hót yður eða reiði, ok hann mun yðr lengr lifa ok hafa meira vald." Högni mælti: „Nú er framm komit þat, er Brynhildr spáði, ok þetta it illa verk fám vér aldri bœtt." Guðrún mælti: „Frændr mínir hafa drepit minn mann; nú munu þér ríða í her fyrst, ok er þér komið til bardaga, þá munu þér finna, at Sigurðr er eigi á aðra hönd yðr, ok munu þér þá sjá, at Sigurðr var yður gæfa ok styrkr, ok ef hann ætti sér slíka sonu, þá mætti þér styrkjast við hans afkvœmi ok sína frændr."

XXXI. Nú þóttist engi kunna at svara, at Brynhildr beiddi þess hlæjandi, er hon harmaði með gráti. Þá mælti hon: „Þat dreymdi mik, Gunnarr! at ek ætta kalda sæng, en þú riðir í hendr úvinum þínum, ok öll ætt yður man illa fara, er þér eruð eiðrofa, ok mundir þú þat úglǫgt, er þit blönduðuð blóði saman Sigurðr ok þú, er þú rétt hann,

---

*L. 1—8. Jfr. Sig. III, Str. 31, L. 5—Str. 33. — L. 16—21. Jfr. Brot. af Sig., Str. 15—Str. 17, L. 4.*

---

5. *I Fas. formodes med urette* sýta *for* sitja. — 9. it *skrevet* eð *i Cd.* — fám vér *har Cd. i omvendt Orden;* verk, er vér fám *Fas.* — bœtt] *Cd. har, saavidt jeg kan sé,* bót, *ikke* bét. — 12. munu] *Cd. synes at have* m$^{v}$o, *men* o *er ikke sikker.* — 13. yður] þeirra *Cd.;* yðar *Fas.* — 15. ok svá frændr? —16. *Cap. 31 lader jeg begynde her efter Fas.; Cd. begynder derimod ikke nyt Cap. her.* — svara] sv *Cd.;* sér *Fas.* — 17. er] eð *Cd.* — 18. *Cd. synes snarere at have* mít *end* míc. — ætta, *saa ændret efter Brot af Sig. Str. 16, L. 4*] átta *Cd.* — 19. riðir, *saa ændret efter Brot af Sig. Str. 16, L. 5*] ríðr *Cd.* — 20. vglaкt *Cd.*

ok hefir þú honum alt illu launat þat, er hann gerði vel til þín ok lét þik fremstan vera, ok þá reyndi þat, er hann kom til vár, hve hann hélt sína eiða, at hann lagði okkar í milli it snarpeggjaða sverð, þat er eitri var hert; ok snemma réðu þér til saka við hann ok við mik, þá er ek var heima með feðr mínum, ok hafða ek alt þat, er ek vilda, ok ætlaða ek engan yðarn minn skyldu verða, þá er þér riðuð þar at garði þrír konungar; síðan leiddi Atli mik á tal ok spyrr, ef ek vilda þann eiga, er riði Grana, sá var yðr ekki líkr, ok þá hétumst ek syni Sigmundar konungs ok engum öðrum; ok eigi mun yðr farast, þótt ek deyja." Þá reis Gunnarr upp ok lagði hendr um háls henni ok bað, at hon skyldi lifa ok þiggja fé, ok allir aðrir löttu hana at deyja; en hon hratt hverjum frá sér, er at henni kom, ok kvað ekki tjóa mundu at letja hana þess, er hon ætlaði. Síðan hét Gunnarr á Högna ok spyrr hann ráða ok bað hann til fara ok vita, ef hann féngi mýkt skaplyndi hennar, ok kvað nú œrna þörf vera á höndum, ef sefast mætti hennar harmr, þar til er frá liði. Högni svarar: „Leti engi maðr hana at deyja, þvíat hon varð oss aldri at gagni, ok engum manni, síðan hon kom higat." Nú bað hon taka mikit gull ok bað þar koma alla þá, er fé vildu þiggja; síðan tók hon eitt sverð ok lagði undir hönd sér ok hneig upp við dýnur ok mælti: „Taki hér nú gull hverr, er þiggja vill!" Allir þögðu. Brynhildr mælti: „Þiggið gullit ok njótið vel!" Enn mælti

---

*L. 1—4. Jfr. Brot af Sig., Str. 17, L. 5—Str. 19. — L. 5—11. Jfr. Sig. III, Str. 34—39. — L. 11—12. Jfr. Sig. III, Str. 53, L. 5—8. — L. 12—26. Jfr. Sig. III, Str. 42—52.*

---

2. reyndi] Reyde *Cd.* — 11. *I Fas. formodes med urette* farnast. — 23. hverjum] hverum *Cd.* — 21. varð *Cd.;* verðr *Fas.* — 22. higat *Cd.*

Brynhildr til Gunnars: „Nú man ek segja þér litla stund þat, er eptir mun ganga: sættast munu þit Guðrún brátt með ráðum Grímhildar ennar fjölkungu; dóttir Guðrúnar ok Sigurðar man heita Svanhildr, er vænst man fœdd allra kvenna; [verðr] Guðrún gefin Atla at sínum úvilja; Oddrúnu mantu vilja eiga, en Atli mun þat banna; þá munu þit eiga launfundi, ok mun hon þér unna; Atli man þik svíkja ok í ormgarð setja, ok síðan man Atli drepinn ok synir hans: Guðrún man þá drepa; síðan munu hana stórar bárur bera til borgar Jónakrs konungs; þar man hon fœða ágæta sonu; Svanhildr mun ór landi send ok gipt Jörmunreki konungi; hana munu bíta Bikka ráð; ok þá er farin öll ætt yðar, ok eru Guðrúnar harmar at meiri. Nú bið ek þik, Gunnarr! efstu bœnar: lát gera eitt bál mikit á sléttum velli öllum oss, mér ok Sigurði, ok þeim, sem drepnir váru með honum; lát þar tjalda yfir af rauðu mannablóði ok brenna mér þar á aðra hönd þenna enn hýnska konung, en á aðra hönd honum mína menn, tvá at höfði, tvá at fótum, ok tvá hauka, þá er at jafnaði skipt; látið þar á milli okkar brugðit sverð, sem fyrr, er vit stigum á einn beð ok hétum þá hjóna [nafni], ok eigi fellr honum þá hurð á hæla, ef ek fylgi honum, ok er vár leizla þá ekki aumlig, ef honum fylgja fimm ambáttir ok átta þjónar, er faðir minn gaf mér, ok þar brenna ok þeir, er drepnir váru með Sigurði; ok fleira

*L. 1—25. Jfr. Sigurðarkviða III, Str. 53, L. 1—4. Str. 54—56. 58—60. 62—70.*

3. fiolkḡu *Cd.* — 5. verðr *Fas.*] *mgler i Cd.* — 10. Ionak[2]rs *Cd.* — 13. *Cd. har* Nv *med stor rød* N *og rød Overskrift* bęn brynh*ildar*, *begynder altsaa her et nyt Capitel.* — 21. hétum, *saa ændret eft. Sig. III, Str. 68, L. 7*] heitum *Cd.* — nafni *indsat eft. Sig. III, 68, L. 8*] *mgler i Cd.* — hjón, ok eigi *Fas.*

munda ek mæla, ef ek væra eigi sár, en nú þýtr undin, en sárit opnast, ok sagða ek þó satt.“

Nú er búit um lík Sigurðar at fornum sið ok gert mikit bál; ok er þat er mjök í kynt, þá var þar lagt á ofan lík Sigurðar Fáfnisbana ok sonar hans þrévetrs, er Brynhildr lét drepa, ok Gutthorms. Ok er bálit var alt loganda, gékk Brynhildr þar á út ok mælti við skemmumeyjar sínar, at þær tœki gull þat, er hon vildi gefa þeim; ok eptir þetta deyr Brynhildr ok brann þar með Sigurði, ok lauk svá þeira ævi.

XXXII. Nú segir þat hverr, er þessi tíðendi heyrir, at engi maðr mun þvílíkr eptir í veröldunni, ok aldri man síðan borinn slíkr maðr, sem Sigurðr var fyrir hversvetna sakar, ok hans nafn man aldri fyrnast í þýðverskri tungu ok á Norðrlöndum, meðan heimrinn stendr. Þat er sagt einnhvern dag, þá er Guðrún sat í skemmu sinni, þá mælti hon: „Betra var þá várt líf, er ek átta Sigurð; svá bar hann af öllum mönnum, sem gull af járni eða laukr af öðrum grösum eða hjörtr af öðrum dýrum, unz brœðr mínir fyrirmundu mér slíks manns, er öllum var fremri; eigi máttu þeir sofa, áðr þeir drápu hann; mikinn gný gerði Grani, þá er hann sá sáran sinn lánardróttin; síðan rœdda ek við hann, sem við mann, en hann hnípti í jörðina

---

*L. 1—2. Jfr. Sig. III, Str. 71. — L. 11—15. Jfr. Þiðr. s. S. 302, L. 19—23. — L. 17—23. Jfr. Guðrúnarkviða II, Str. 1—5, L. 6.*

---

1. vndíñ *Cd., men første Bogstav er kludret og usikker; jvfr.* vndir svella *i Sig. III, 71.* þýtr öndin *Fas.; dette skal vel være en Gjengivelse af* omvn þverr *i Sig., men derfor skulde man vente* þrýtr öndina. — 2. opnast] optazt *Cd. med rød Streg under.* — 5. vetrs *skrevet* vetz *i Cd.* — 11. *Cap. 32. Rød Cap.-overskr. i Cd.:* brott havrf gvdrvnar. — 14. þýðværskri *Hskrr. af Þiðr. s.*] þyverskri *Cd.* — 19. vns *Cd.*

ok vissi, at Sigurðr var fallinn.“ Síðan hvarf Guðrún brott á skóga ok heyrði alla vega frá sér varga þyt, ok þótti þá blíðara at deyja. Guðrún fór, unz hon kom til hallar Hálfs konungs, ok sat þar með Þóru Hákonar dóttur í Danmǫrku sjau misseri ok var þar í miklum fagnaði, ok sló borða yfir henni ok skrifaði þar á mörg ok stór verk ok fagra leika, er tíðir váru í þann tíma, sverð ok brynjur ok allan konungs búnað, skip Sigmundar konungs, er skriðu fyrir land framm; ok þat byrðu þær, er þeir bǫrðust Sigarr ok Siggeirr á Fjóni suðr; slíkt var þeira gaman, ok huggaðist Guðrún nú nǫkkut harms síns. Þetta spyrr Grímhildr, hvar Guðrún er niðr komin, heimtir á tal sonu sína ok spyrr, hverju þeir vilja bœta Guðrúnu son sinn ok mann, kvað þeim þat skylt. Gunnarr segir, kvezt vilja gefa henni gull ok bœta henni svá harma sína; senda eptir vinum sínum ok búa hesta sína, hjálma, skjöldu, sverð ok brynjur ok allskonar herklæði; ok var þessi ferð búin it kurteisligsta, ok engi sá kappi, er mikill var, sat nú heima; hestar þeira váru brynjaðir, ok hverr riddari hafði annathvárt gyltan hjálm eða skygðan. Grímhildr ræzt í ferð með þeim ok segir þeira erendi svá fremi fullgert munu verða, at hon siti eigi heima. Þeir hǫfðu alls fimm hundruð manna; þeir hǫfðu ok ágæta menn með sér; þar var Valdamarr

---

*L. 1—23. Jfr. Guðrúnarkviða II, Str. 5, L 7—8. Str. 11— Str. 19, L. 1.*

---

1. hvarf *skrevet* havrf *i Cd.* — gvdrvn *har Cd. i Randen; i Teksten var feilagtig skrevet* grane, *men dette er overstrøget.* — 3. Guðrún] *grane Cd.* — vnz *Cd.* — hon] h*ann Cd.* — 4. Þóru] þora *Cd.* — Hákonar dóttur] Hákunar dóttir *Cd.* — 5—6. *Kanské:* ok hon sló; *jvf. Guðr. II, 14.* — 10. *For* Fjóni *har R i Guðr. II, Str. 16* Fivi. — 17—18. kurteislista *Cd.* — 21. munu] mvn *Cd.* — 23. Valdamar *Cd.*; *derfor har Guðr. II, Str. 19 rettere* Valdarr.

af Danmörk ok Eymóðr ok Jarisleifr. Þeir géngu inn í höll Hálfs konungs; þar váru Langbarðar, Frakkar ok Saxar; þeir fóru með öllum herbúnaði ok höfðu yfir sér loða rauða, sem kveðit er:

27. Stuttar brynjur,
steypta hjálma,
skálmum gyrðir,
ok höfðu skarar jarpar.

Þeir vildu velja systur sinni góðar gjafir ok mæltu vel við hana, en hon trúði engum þeira. Síðan fœrði Grímhildr henni meinsamligan drykk, ok varð hon við at taka ok mundi síðan engar sakar; sá drykkr var blandinn með jarðar magni ok sæ ok dreyra sonar hennar, ok í því horni váru ristnir hverskyns stafir ok roðnir með blóði, sem hér segir:

28. Váru í því horni
hverskyns stafir
ristnir ok roðnir,
ráða ek ne máttak;
lyngfiskr langr,

---

*L. 1—4. Jfr. Guðr, II, Str. 19, L. 2—8. — Str. 27. Guðr. II, Str. 19, L. 9—12. — L. 9—14. Jfr. Guðr. II, Str. 20—22, L. 3. — Str. 28. Guðr. II, Str. 22.*

---

2. Langbarðar] langb: þr *Cd.* — 6. steypta *R*] stepta (*ikke* steipta) *med rød Streg under i Cd.* — 7. gyrdir *Cd.*, *ikke* girðir. — 8. ok *er bedre borte, som i R.* — 10. Grímhildr, *saa ændret efter Guðr. II, 21*] Gunnarr *Cd.* — 13. dreyra *Cd.*, *ikke* dreira. — 14. kyns] kvns *Cd.* — sem *Cd.*, *ikke* er. — 20. langr] lag*ar Cd.; lāǵ R. Jeg har sat Komma efter* langr *med Eg., som henviser til Fortællingen om Hadding hos Sakse (Müllers Udg. S. 51), og Gisli Brynjúlfsson (Ant. Tskr. 1855—1857, S. 157). Ellers sættes ikke Komma efter* langr, *men efter* Haddingja; *herfor taler Versemaalet.*

lands Haddingja  
ax úskorit,  
innleið dýra.

29. Váru þeim bjóri  
böl mörg saman:  
urt alls viðar  
ok akarn brunnin,  
umdögg arins,  
iðrar blótnar,  
svíns lifr soðin,  
þvíat sakar deyfði.

Ok eptir þat, er vili þeira kom saman, gerðist fagnaðr mikill. Þá mælti Grímhildr, er hon fann Guðrúnu: „Vel verði þér, dóttir! ek gef þér gull ok allskonar gripi at þiggja eptir þinn feðr, dýrliga hringa ok ársal hýnskra meyja, þeira er kurteisastar eru, þá er þér bœttr þinn maðr; síðan skal þik gipta Atla konungi inum ríka, þá muntu ráða hans auði, ok lát eigi frændr þína fyrir sakir eins manns ok ger heldr, sem vér biðjum.“ Guðrún svarar: „Aldri vil ek eiga Atla konung, ok ekki samir okkr ætt saman at auka.“ Grímhildr svarar: „Eigi skaltu nú á heiptir hyggja ok lát, sem lifi Sigurðr ok Sigmundr, ef þú

---

*Str. 29. Guðr. II, Str. 23. — L. 12—22. Jfr. Guðr. II, Str. 24—28.*

---

6. allz v[i]dar *Cd.* (*ikke* Alsviðar); allz viþar *R.* — 7. akarñ brunniñ *Cd.* (*ligesaa i L. 10* soðiñ). — 8. vmdaɔgg *R; det er tvilsomt, om Cd. har* viu d. *eller* vm d. — 9. iþrar blotnar *R;* itrar blotna *Cd.* — 11. *Foran* sakar *har R* hon. — 13—14. velverde *i Cd. sammenskrevet.* — 15—16. *Det skulde maaské hede* hýnskar meyjar, þær, *som i Guðr. II, 26.*

átt sonu.“ Guðrún segir: „Ekki má ek af honum hyggja, hann var öllum fremri.“ Grímhildr segir: „Þenna konung man þér skipat at eiga, en engan skaltu elligar eiga.“ Guðrún segir: „Bjóði þér mér eigi þenna konung, er ilt eitt man af standa þessi ætt, ok mun hann sonu þína illu beita, ok þar eptir man honum grimmu hefnt vera.“ Grímhildr varð við hennar fortölur illa ok mælti: „Ger, sem vér beiðum, ok muntu þar fyrir taka mikinn metnað ok vára vináttu ok þessa staði, er svá heita: Vínbjörg ok Valbjörg.“ Hennar orð stóðust svá mikit, at þetta varð framm at ganga. Guðrún mælti: „Þetta mun verða framm at ganga ok þó at mínum úvilja, ok mun þat lítt til yndis, heldr til harma.“ Síðan stíga þeir á hesta sína, ok eru konur þeira settar í vagna, ok fóru svá sjau daga á hestum, en aðra sjau á skipum, ok ena þriðju sjau enn landveg, þar til er þeir kómu at einni hári höll; henni gékk þar í mót mikit fjölmenni, ok var þar búin ágætlig veizla, sem áðr höfðu orð í milli farit, ok fór hon framm með sœmd ok mikilli prýði. Ok at þessi veizlu drekkr Atli brúðlaup til Guðrúnar; en aldri gerði hugr hennar við honum hlæja, ok með lítilli blíðu var þeira samvista.

---

*L. 1—16. Jfr. Guðr. II, Str. 29—36.*

---

1. af *Fas.*] *mgler i Cd.* — 5. þína] sína *Cd.; jvfr. Guðr. II, 31.* — 6. Grimhildr *Fas.*] *Grimh med Forkortningstegn efter i Cd.; dette kunde ogsaa opløses* Grímhildi, *hvilket vilde give ligesaa rigtigt Udtryk.* — 7. *Efter* illa *har Cd.* við sonu sína, *som udelades hos Bj. og i Fas.; dette kan vel neppe beholdes og forbindes med* fortölur, *uagtet det i Guðr. II, 32 heder:* Gratandi Grimildr greip vid ordi, er bvrom sinom ba/lva uętti oc ma/gom sinom meína stórra. — 14—15. sjau, *saa ændret paa alle tre Steder*] fjóra *Cd.* — *Guðr. II, 35 har* sjau, *hvilket der er sikret derved, at det danner Stavrim med* svalt; vij *er feilagtig blevet læst som* iiij.

XXXIII. Nú er þat sagt einhverja nótt, at Atli konungr vaknar ór svefni, mælti hann við Guðrúnu: „Þat dreymdi mik“, segir hann, „at þú legðir á mér sverði.“ Guðrún réð drauminn ok kvað þat fyrir eldi, er járn dreymdi, „ok dul þeiri, er þú ætlar þik öllum fremra.“ Atli mælti: „Enn dreymdi mik, sem hér væri vaxnir tveir reyrteinar, ok vilda ek aldri skeðja; síðan váru þeir rifnir upp með rótum ok roðnir í blóði ok bornir á bekki ok boðnir mér at eta; enn dreymdi mik, at haukar tveir flygi mér af hendi ok væri bráðalausir, ok fóru til heljar, þótti mér þeira hjörtum við hunang blandit, ok þóttumst ek eta; síðan þótti mér, sem hvelpar fagrir lægi fyrir mér, ok gullu við hátt, ok át ek hræ þeira at mínum úvilja.“ Guðrún segir: „Eigi eru draumar góðir, en eptir munu ganga; synir þínir munu vera feigir, ok margir hlutir þungir munu oss at hendi koma.“ „Þat dreymdi mik enn“, segir hann, „at ek lægi í kör, ok væri ráðinn bani minn.“ Nú líðr þetta, ok er þeira samvista fálig. Nú íhugar Atli konungr, hvar niðr man komit þat mikla gull, er átt hafði Sigurðr, en þat veit nú Gunnarr konungr ok þeir brœðr. Atli var mikill konungr ok ríkr, vitr ok fjölmennr, gerir nú ráð við sína menn, hversu með skal fara; hann veit, at þeir Gunnarr

---

*L. 1—17. Jfr. Guðr. II, Str. 37—44. — L. 21—22. Jfr. Atlamál Str. 1.*

---

1. *Cap. 33. Rød Cap.-overskr. i Cd.:* gvðʀvn ʀeíst ʀv́nar. — 5. þeiri] þeʀí *Cd.* — 7. *Cd. synes at have* skęðia, *men Krøllen under* ę *er meget utydelig.* — 9. eta, *saa Fas.; i Cd. skrevet* ętha, *hvilket kanské snarere bør forstaaes som* æta (*Præt. Konj. 1 Ps. Sg.*). *Guðr. II, 40 har* beþit mic at tyggva, *hvor* tyggva *vel snarest bør forstaaes som Præt. Konj. 1 Ps. Sg.* — 11. hjörtum *skrevet* hⁱtū *i Cd.* — 17. kör *i Cd. skrevet* kavr; *dette er ikke tydeligt, men dog sikkert; der staar ikke* baði.

eigu miklu meira fé, en né einir menn megi við þá jafnast; tekr nú þat ráð at senda menn á fund þeira brœðra ok bjóða þeim til veizlu ok at sœma þá mörgum hlutum; sá maðr var fyrir þeim, er Vingi er nefndr. Dróttningin veit nú þeira einmæli, ok grunar, at vera muni vélar við brœðr hennar. Guðrún rístr rúnar, ok hon tekr einn gullhring ok knýtti í vargshár ok fær þetta í hendr sendimönnum konungs. Síðan fóru þeir eptir konungs boði; ok áðr þeir stigi á land, sá Vingi rúnarnar ok sneri á aðra leið ok, at Guðrún fýsti í rúnum, at þeir kvæmi á hans fund. Síðan kómu þeir til hallar Gunnars konungs, ok var tekit við þeim vel, ok gervir fyrir þeim eldar stórir; ok síðan drukku þeir með gleði enn bezta drykk. Þá mælti Vingi: „Atli konungr sendi mik hingat ok vildi, at þit sœttið hann heim með miklum sóma ok þægið af honum mikinn sóma, hjálma ok skjöldu, sverð ok brynjur, gull ok góð klæði, herlið ok hesta ok mikit lén, ok ykkr lézt hann bezt unna síns ríkis.“ Þá brá Gunnarr höfði ok mælti til Högna: „Hvat skulum vit af þessu boði þiggja? hann býðr okkr at þiggja mikit ríki, en enga konunga veit ek jafnmikit gull eiga, sem okkr, þvíat vit höfum þat gull alt, er á Gnítaheiði lá, ok eigum vit stórar skemmur fullar af gulli ok inum beztum höggvápnum ok allskonar herklæðum; veit ek minn hestinn beztan ok sverðit hvassast, gullit ágætast.“ Hǫgni svarar: „Undrumst ek boð hans, þvíat þat hefir hann sjaldan gert, ok úráðligt man vera at fara á hans fund, ok þat undrumst ek, er ek sá gersimar þær,

*L. 2—12. Jfr. Atlamál Str. 2—5* (hon tekr einn gullhring ok knýtti í vargshár *efter Atlakviða Str. 8*). — *L. 13. Jfr. Atlam. Str. 8; Atlakv. Str. 1. 2. — L. 14—27. Jfr. Atlakv. Str. 3—8, L. 2.*

14. sendi, *saa ændret efter Atlakv. Str. 3, L. 1*] sendir *Cd.* — þit sœttið *skrevet* þitt sęktið *i Cd.* — lézt] lęzt *Cd.* — 23. allz skonar *Cd.* — 25. ag$^{z}$ęt *Cd.*

er Atli konungr sendi okkr, at ek sá vargshári knýtt í einn gullhring, ok má vera, at Guðrúnu þikki hann úlfshug við okkr hafa, ok vili hon eigi, at vit farim.“ Vingi sýnir honum nú rúnarnar þær, er hann kvað Guðrúnu sent hafa. Nú gengr alþýða at sofa, en þeir drukku við nökkura menn. Þá gékk at kona Högna, er hét Kostbera, kvenna fríðust, ok leit á rúnarnar; kona Gunnars hét Glaumvör, skörungr mikill; þær skenktu. Konungar gerðust allmjök druknir; þat finnr Vingi ok mælti: „Ekki er því at leyna, at Atli konungr er þungfœrr mjök ok gamlaðr mjök at verja sitt ríki, en synir hans ungir ok til engis fœrir; nú vill hann gefa yðr vald yfir ríkinu, meðan þeir eru svá ungir, ok ann yðr bezt at njóta.“ Nú var bæði at Gunnarr var mjök drukkinn, en boðit mikit ríki, mátti ok eigi við sköpum vinna, heitr nú ferðinni ok segir Högna bróður sínum; hann svarar: „Yðart atkvæði mun standa hljóta, ok fylgja mun ek þér, en úfúss em ek þessarrar ferðar.“

XXXIV. Ok er menn höfðu drukkit, sem líkaði, þá fóru þeir at sofa; tekr Kostbera at líta á rúnarnar ok inti stafina ok sá, at annat var á ristit, en undir var, ok viltar váru rúnarnar; hon fékk þó skilit af vizku sinni; eptir þat ferr hon til rekkju hjá bónda sínum. Ok er þau vöknuðu, mælti hon til Högna: „Heiman ætlar þú, ok er þat úráðligt, far heldr í annat sinn! ok eigi mantu vera gløggrýnn, ef þér þikkir, sem hon hafi í þetta sinn boðit þér systir

*L. 1–3. Jfr. Atlakv. Str. 8. — L. 5—8. Jfr. Atlam. Str. 9. 6. — L. 9—13. Jfr. Þiðr. s., S. 309, L. 9—13. — L. 15—25. Jfr. Atlam. Str. 7, L. 5—Str. 11.*

5. nock$^{2}$a *Cd.* — 7. Glaumvör] glavnvor *Cd.* — friðust; *maaské* fróðust? — 10. þungfer *Cd.* — 11. eingis *Cd.* — 18. *Cap. 34. Nyt Cap. efter Fas.*; *Cd. har* ok *med liden* o *og betegner ikke, at et nyt Cap. begynder her.* — 22. vaknvþv *Cd.* — 24. glaug yn *Cd.*

þín; ek réð rúnarnar, ok undrumst ek um svá vitra konu, er hon hefir vilt ristit, en svá er undir, sem bani yðarr liggi á, en þar var annathvárt, at henni varð vant stafs, eða ellegar hafa aðrir vilt; ok nú skaltu heyra draum minn. Þat dreymdi mik, at mér þótti hér falla inn á harðla ströng, ok bryti upp stokka í höllinni.“ Hann svarar: „Þér eruð opt illúðgar, ok á ek ekki skap til þess at fara illa í mót við menn, nema þat sé makligt; mun hann oss vel fagna.“ Hon segir: „Þér munuð reyna, en eigi mun vinátta fylgja boðinu. Ok enn dreymdi mik, at önnur á félli hér inn ok þyti grimmliga ok bryti upp alla palla í höllunni ok bryti fœtr ykra beggja brœðra, ok mun þat vera nakkvat.“ Hann svarar: „Þar munu renna akrar, er þú hugðir ána, ok er vér göngum akrinn, nema opt stórar agnir fœtr vára.“ „Þat dreymdi mik“, [segir hon], „at blæja þín brynni, ok hryti eldrinn upp af höllunni.“ Hann svarar: „Þat veit ek gørla, hvat þat er: klæði vár liggja hér lítt rœkt, ok munu þau þar brenna, er þú hugðir blæjuna.“ „Björn hugða ek hér inn koma“, segir hon, „ok braut upp konungs hásætit ok hristi svá hrammana, at vér urðum öll hrædd, ok hafði oss öll senn sér í munni, svá at ekki máttum vér, ok stóð þar af mikil ógn.“ Hann svarar:

---

*L. 1—4. Jfr. Atlam. Str. 11, L. 5—Str. 12. — L. 7—10. Jfr. Atlam. Str. 13. 14, L. 1—4. — L. 10—12. Jfr. Atlam. Str. 26. — L. 15—22. Jfr. Atlam. Str. 15—17.*

---

5. Þat *med stor rød* Þ *i Cd. og derforan rød Cap.-overskr.:* haugne Ned drauma konu sinnar. — 11. grimligha *Cd.* — havllvnne, *saa Cd.* — 12. nakuat *Cd.* — 13. munu *skrevet* $\overset{v}{\text{m}}$ *i Cd.* — 14. vará *Cd.* — 15. segir hon *Fas.*] *mgler i Cd.* — 16. *Cd. har ikke* höllinni. — 17. lítt rœkt *skrevet* lit rekt *i Cd.* (*der S. 172, L. 11 skriver* lit eirde); *jvfr. Atlam. Str. 16, L. 2:* þar er lítt rękit; *feilagtig* litrekt *Fas.* — 20. hramana *Cd.*

„Þar man koma veðr mikit, er þú ætlaðir hvítabjörn.“ „Örn þótti mér hér inn koma“, segir hon, „ok eptir höllunni, ok dreifði mik blóði ok oss öll, ok mun þat ilt vita, þvíat mér þótti, sem þat væri hamr Atla konungs.“ Hann svarar: „Opt slátrum vér örliga ok höggum stór naut oss at gamni, ok er þat fyrir yxnum, er örnu dreymir, ok mun heill hugr Atla við oss.“ Ok nú hætta þau þessu tali.

XXXV. Nú er at segja frá Gunnari, at þar er sams dœmi, er þau vakna, at Glaumvör kona Gunnars segir drauma sína marga, þá er henni þóttu líkligir til svika, en Gunnarr réð alla því á móti. „Þessi var einn af þeim“, sagði hon, „at mér þótti blóðugt sverð borit hér inn í höllina, ok vartu sverði lagðr í gegnum, ok emjuðu úlfar á báðum endum sverðsins.“ Konungrinn svarar: „Smáir hundar vilja oss þar bíta, ok er opt hundagnöll fyrir vápnum með blóði lituðum.“ Hon mælti: „Enn þótti mér hér inn koma konur, ok váru daprligar, ok þik kjósa sér til manns; má vera, at þínar dísir hafi þat verit.“ Hann svarar: „Vant gerist nú at ráða, ok má ekki forðast sitt aldrlag, en eigi úlíkt, at vér verðum skammæir.“ Ok um morgininn spretta þeir upp ok vilja fara, en aðrir löttu. Síðan mælti Gunnarr við þann mann, er Fjörnir hét: „Statt upp! ok gef oss at drekka af stórum kerum gott vín, þvíat vera má, at sjá sé vár en síðarsta veizla, ok nú mun enn gamli úlfrinn komast at gullinu, ef vér deyjum, ok svá björninn

---

*L. 1—21. Jfr. Atlamál Str. 18—21, 24—25. 28—30, L. 4. — L. 22—25. Jfr. Atlakviða Str. 10—11, L. 5.*

---

2. hollun*ne* *Cd.* — 5. aurligha *Cd.* — 8. *Cap. 35. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: heima*nn* fe*r*ð þe*ir*ra br*ǫðra*. — 9. Glaumvör] glamv̄ *Cd.* (*for* m *kunde mulig læses sammenslynget* vn). — 15. gnaull *Cd.* — 19. vañt *Cd.* — 25. svá] sá *Cd.*

mun eigi spara at bíta sínum vígtönnum.“ Síðan leiddi liðit þá út með gráti. Son Högna mælti: „Farið vel ok hafið góðan tíma!“ Eptir var meiri hlutr liðs þeira. Sólarr ok Snævarr synir Högna fóru ok einn kappi mikill, er Orkningr hét, hann var bróðir Beru. Fólkit fylgdi þeim til skipa, ok löttu allir þá fararinnar, en ekki tjóaði. Þá mælti Glaumvör: „Vingi!“ segir hon, „meiri ván, at mikil úhamingja standi af þinni kvámu, ok munu stórtíðendi gerast í för þinni.“ Hann svarar: „Þess sver ek, at ek lýg eigi, ok mik taki hár gálgi ok allir gramir, ef ek lýg nakkvat orð!“ ok lítt eirði hann sér í slíkum orðum. Þá mælti Bera: „Farið vel ok með góðum tíma!“ Högni svarar: „Verið kátar, hversu sem með oss ferr!“ Þar skiljast þau með sínum forlögum. Síðan reru þeir svá fast ok af miklu afli, at kjölrinn gékk undan skipinu mjök svá hálfr; þeir knúðu fast árar með stórum bakföllum, svá at brotnuðu hlumir ok háir; ok er þeir kómu at landi, festu þeir ekki skip sín. Síðan riðu þeir sínum ágætum hestum myrkan skóg um hríð; nú sjá þeir konungsbœinn; þangat heyra þeir mikinn gný ok vápnabrak ok sjá þar mann-

---

*L. 1—3. Jfr. Atlakv. Str. 11, L. 6—Str. 12. — L. 3—18. Jfr. Atlam. Str. 30, L. 6—Str. 31. — L. 18—20. Jfr. Atlakv. Str. 13—14* (nú sjá þeir konungsbœinn *nærmest efter Atlam. Str. 38, L. 3—4*).

---

3. ok hafið] *i Cd. er skrevet* ok ha^t^f, *men dette sidste Ord er overstrøget, og derefter er sat* " *som Tegn til, at noget her skal føies ind*; *men intet er skrevet til i Randen.* ok með góðum (*som nedenfor*)? — 4. Snævarr, *saa rettet efter Dráp Niflunga og Atlam. Str. 30, L. 9*] gnęvarr *Cd.* — Högna *skrevet* havg̊ *i Cd.* — f^o^. ok. eín *Cd.* — 7. *Her har Cd.* glavmvor. — ván] vǫn *Cd.* — 11. nakvat *Cd.* — eirde; *saa Cd*, *ikke* eyrði. — 14. forlögum] faurl*a*vghv*m* *Cd.* — 17. hlumir; *den almindelige Form er* hlummar. — 19. ko*n*v*ng*s bęín*n*; *saa Cd*, *ikke* herinn. — 20. brack *Cd.* (c *er underprikket som urigtig*).

fjölda ok mikinn viðrbúnað, er þeir höfðu, ok öll borgarhlið váru full af mönnum. Þeir ríða at borginni, ok var hon byrgð; Högni braut upp hliðit, ok ríða nú í borgina. Þá mælti Vingi: „Þetta mættir þú vel úgert hafa, ok bíðið nú hér, meðan ek sœki yðr gálgatré; ek bað yðr með blíðu hér koma, en flátt bjó undir; nú man skamt at bíða, áðr þér munuð upp festir.“ Högni svarar: „Eigi munu vér fyrir þér vægja, ok lítt hygg ek, at vér hrykkim þar, er menn skyldu berjast, ok ekki tjóar þér oss at hræða, ok þat man þér illa gefast“; hrundu honum síðan ok börðu hann øxarhömrum til bana.

XXXVI. Þeir ríða nú at konungshöllinni. Atli konungr skipar liði sínu til orrostu, ok svá vikust fylkingar, at garðr nökkurr varð í millum þeira. „Verið vel komnir með oss!“ segir hann, „ok fáið mér gull þat it mikla, er vér erum til komnir, þat fé, er Sigurðr átti, en nú á Guðrún.“ Gunnarr segir: „Aldri fær þú þat fé, ok dugandi menn munu þér hér fyrir hitta, áðr vér látim lífit, ef þér bjóðið oss úfrið; kann vera, at þú veitir þessa veizlu stórmannliga ok af litilli eymd við örn ok úlf.“ „Fyrir löngu hafða ek þat mér í hug“, [segir Atli], „at ná yðru lífi, en ráða gullinu ok launa yðr þat níðingsverk, er þér svikuð yðarn enn bezta mág, ok skal ek hans hefna.“ Högni svarar: „Þat kemr yðr verst at haldi at liggja lengi á

*L. 1—2. Jfr. Atlakv. Str. 14. — L. 2—14. Jfr. Atlam. Str. 38, L. 5—Str. 42, L. 4. — L. 20—21. Jfr. Atlam. Str. 42, L. 5—6. — L. 24. Jfr. Atlam. Str. 43, L. 1—2.*

1. viðr *skrevet* vdr (i over d) *i Cd.* — 8. þer vęgía; *saa Cd., ikke* þat vægja. — 12. *Cap. 36. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: orrosta í borgínne ok s°. — 15. segir hann *Fas.*] *mgler i Cd.* — 21. segir Atli *Fas.*] *mgler i Cd.*

þessu ráði, en eruð þó at engu búnir.“ Nú slær í orrostu harða, ok er fyrst skothríð. Ok nú koma fyrir Guðrúnu tíðendin; ok er hon heyrir þetta, verðr hon við gneyp ok kastar af sér skikkjunni. Eptir þat gékk hon út ok heilsaði þeim, er komnir váru, ok kysti brœðr sína ok sýndi þeim ást, ok þessi var þeira kveðja en síðarsta. Þá mælti hon: „Ek þóttumst ráð hafa við sett, at eigi kœmi þér, en engi má við sköpum vinna“; þá mælti hon: „Mun nökkut tjóa at leita um sættir?“ en allir neituðu því þverliga. Nú sér hon, at sárt er leikit við brœðr hennar, hyggr nú á harðræði, fór í brynju ok tók sér sverð ok barðist með brœðrum sínum ok gékk svá framm sem hinn hraustasti karlmaðr, ok þat sögðu allir á einn veg, at varla sæi meiri vörn en þar. Nú gerist mikit mannfall, ok berr þó af framganga þeira brœðra; orrostan stendr nú lengi framm, alt um miðjan dag. Gunnarr ok Högni géngu í gegnum fylkingar Atla konungs, ok svá er sagt, at allr völlr flaut í blóði. Synir Högna ganga nú hart framm. Atli konungr mælti: „Vér höfðum lið mikit ok frítt ok stóra kappa, en nú eru margir af oss fallnir, ok eigum vér yðr ilt at launa, drepit nítján kappa mína, en ellifu einir eru eptir“; ok verðr hvíld á bardaganum. Þá mælti Atli konungr: „Fjórir váru vér brœðr, ok em ek nú einn eptir; ek hlaut mikla mægð, ok hugða ek mér þat til frama; konu átta

---

*L. 1–24. Jfr. Atlamál Str. 43, L. 3—Str. 56, L. 3.*

---

1. eruð] erv *Cd.; jvfr. Atlam. Str. 43, L. 3:* en eroþ obvnir. — 3. gneyp] gneip *Cd.* — 7. þ*er.* En*n* en*n* eínge *Cd.* — 19. höfðum] hof*um Cd.; jvfr. Atlam. Str. 54.* — 21. ellifu, *saa ændret efter Atlam. Str. 54, L. 7, hvor* ellifu *er sikret ved Stavrimet*] sex *Cd.;* xı *er blevet forvansket til* vı. — 23. *Atlam. Str. 55, L. 1:* Brǫþr varom fimm (*skrevet* v).

ek væna ok vitra, stórlynda ok harðúðga, en ekki má ek njóta hennar vizku, þvíat sjaldan váru vit sátt; þér hafið nú drepit marga mína frændr, en svikit mik frá ríkinu ok fénu, ráðit systur mína, ok þat harmar mik mest." Högni segir: „Hví getr þú slíks? þér brugðuð fyrri friði; þú tókt mína frændkonu ok sveltir í hel ok myrðir ok tókt féit, ok var þat eigi konungligt; ok hlœgligt þikkir mér, er þú tínir þinn harm, ok goðunum vil ek þat þakka, er þér gengr illa."

XXXVII. Nú eggjar Atli konungr liðit at gera harða sókn; berjast nú snarpliga, ok sœkja Gjúkungar at svá fast, at Atli konungr hrøkkr inn í höllina, ok berjast nú inni, ok var orrostan allhörð. Sjá bardagi varð með miklu mannspelli, ok lýkr svá, at fellr alt lið þeira brœðra, svá at þeir standa tveir upp, ok fór áðr margr maðr til heljar fyrir þeira vápnum. Nú er sótt at Gunnari konungi, ok fyrir sakir ofreflis var hann höndum tekinn ok í fjötra settr. Síðan barðist Högni af mikilli hreysti ok drengskap ok feldi ena stœrstu kappa Atla konungs tuttugu; hann hratt mörgum í þann eld, er þar var gerr í höllunni; allir urðu á eitt sáttir, at varla sæi slíkan mann; en þó varð hann at lyktum ofrliði borinn ok höndum tekinn. Atli konungr mælti: „Mikil furða er þat, hve margr maðr hér hefir farit fyrir honum; nú skeri ór honum hjartat, ok

*L. 1—11. Jfr. Atlam. Str. 56, L. 3—Str. 58. — L. 16—22. Jfr. Atlakv. Str. 18—19. — L. 24. Jfr. Atlam. Str. 59, L. 1—4.*

7. hlęglíght *Cd.* — 8. tínir, *saa Cd*, *ikke* týnir. — 10. *Cap. 37. Rød Cap.-overskr. i Cd.*: hægni hand tekinn. — 12. hraukr *Cd.* — 15. margr] margh *Cd.* — 16. sott, *saa Cd.* — 18. hreiyst *Cd.* (*men, som det synes, raderet*). — 20. ger *Cd* — *Cd. har ikke* höllinni. — 21. *For* slíkan mann *formoder jeg* slíka vörn, *jvfr. S. 174, L. 13—14 og Atlakv. Str. 19*: sva skal frǫcn fiandom veriaz.

sé þat hans bani.“ Högni mælti: „Geri, sem þér líkar; glaðliga mun ek hér bíða þess, er þér vilið at gera, ok þat muntu skilja, at eigi er hjarta mitt hrætt, ok reynt hefi ek fyrr harða hluti, ok var ek gjarn at þola mannraun, þá er ek var úsárr, en nú eru vér mjök sárir, ok mantu einn ráða várum skiptum.“ Þá mælti ráðgjafi Atla konungs: „Sé ek betra ráð: tökum heldr þrælinn Hjalla, en forðum Högna; þræll þessi er skapdauði, hann lifir eigi svá lengi, at hann sé eigi dáligr.“ Þrællinn heyrir ok œpir hátt ok hleypr undan, hvert er honum þikkir skjóls ván, kvezt ilt hljóta af úfriði þeira ok váss at gjalda, kveðr þann dag illan vera, er hann skal deyja frá sínum góðum kostum ok svína geymslu. Þeir þrifu hann ok brugðu at honum knífi; hann œpti hátt, áðr hann kendi oddsins. Þá mælti Högni, sem færum er títt, þá er í mannraun koma,.. hann árnaði þrælinum lífs ok kvezt eigi vilja skræktun [heyra], kvað sér minna fyrir at fremja þenna

---

*L. 1—17. Jfr. Atlamál Str. 60—Str. 64, L. 6.*

---

1. geri, *saa Cd., ikke* ger. *Dog er denne Form, som jeg ellers aldrig har sét, mistænkelig; i Atlam. 60 har R* gor. — 4. harða *burde vel hede* harðari; *jvfr. Atlam. Str. 60:* reynt hefi ec fyrr brattara. — 6. mantu; *kanské* máttu. — einn] enn *Cd.; jvfr. Atlam. 60:* þv mátt sialfr valda. — 10. hleypr] hleypir *Cd.* — 11. vaš *Cd.* — 15. *1 Cd. har været skrevet* odd sins, *men yderst i Linjen er nu bortrevet det Stykke af Pergamentet, hvorpaa Halvdelen af* n *og hele* s *har været skrevet.* — 16. *Efter* koma *er i Cd. et Stykke af Pergamentet bortrevet, saa stort, at to Bogstaver kunne have staat der; kanské* at. — þrę̨linum, *saa Cd.* — 17. heyra] *mgler nu i Cd., hvor et Stykke af Pergamentet, stort nok til dette Ord, er afrevet; maaské har der endog været skrevét* þá heyra; *jvfr. Atlam. 64:* heyra a þá scrę̨cton.

